# Æfiminning

stúdents og alþingismanns

# Guttorms Vigfússonar

að Arnheiðarstöðum í Fljótsdal.

Gefin út á kostnað barna hans.



**Akureyri 1857.**

í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins,
af H. Helgasyni.

Guttormur Vigfússon fæddist 17. nóvemberm. 1804 á Valþjófsstað í Fljótsdal. Faðir hans var Vigfús prestur á Ási og síðan á Valþjófsstað, Ormsson prests til Gunnarsholts og Keldna, Snorrasonar prests á Mosfelli í Grímsnesi og Görðum á Akranesi, Jónssonar prests á Mosfelli, Snorrasonar, Jónssonar, Ormssonar sýslumanns í Eyjum í Kjós, Vigfússonar. Móðir Guttorms sál. var Bergljót Þorsteinsdóttir prests á Krossi í Landeyjum. — Hann ólst upp heima hjá foreldrum sínum. Árið 1816 tók faðir hans Sigfús stúdent Árnason, er seinna varð aðstoðarprestur á Dvergasteini, til að kenna sonum sínum. Síðan var Guttormur 3 vetur til kennslu hjá Guttormi prófasti Pálssyni á Hólmum. Þá tók sjera Vigfús Guðmund stúdent Jónsson, er seinna varð djákni á Grenjastað, til að kenna sonum sínum heima. En haustið 1823 sendi hann Guttorm suður til Guðmundar prests Bjarnasonar, sem þá var aðstoðarprestur til Garða á Alptanesi. Vorinu eptir útskrifaði Guðmundur prestur hann. Er „testimonium“ hans gefið 1. júním. 1824 á Svalbarði á Álptanesi. Þar segir svo, að Guttormnr hafi haft farsælar gáfur og gott minni og verið hinn

siðprúðasti. Enda var þetta sama álit allra, sem höfðu kennt honum. Ekki voru gáfur hans neitt sjerlega fljótar. Snemma bar á því, að hann var hagur og hugvitsamur, og sáust þess jafnan merki meðan hann lifði.

Þegar hann var útskrifaður, fór hann heim til föður síns, er þá var kominn í elli sinni að Arnheiðarstöðum, og hafði fengið að afhenda aðstoðarpresti sínum, Stepháni prófasti Árnasyni, Valþjófsstaðar prestakall til umsjónar. Árið 1826 kvongaðist Guttormur og gekk að eiga Halldóru Jónsdóttur vefara, Þorsteinssonar prests á Krossi í Landeyjum. Þá byggði og Vigfús prestur syni sínum hálfa Arnheiðarstaði móti sjer, en hafði þó sjálfur ráð fyrir flestu, með því hann var sjálfur einn mesti búmaður eptir þeirrar tíðar hætti, og hafði lagað mjög hina eldri búskaparaðferð í sinni sveit. Nokkru seinna byggði hann Guttormi alla jörðina, en áskildi sjer hálf afnot hennar meðan hann lifði. Vorið 1835 lagðist sjera Vigfús í kör hálfvisinn; tók þá sonur hans við öllum jarðar umráðum og annaðist föður sinn þangað til hann andaðist 12. septembm. 1841. Eptir það bjó hann einn á jörðunni til dauðadags.

Nokkru áður enn hann kongaðist hafði hann átt dóttur við ungum kvennmanni. Sú dóttir hans er nú kona í Fljótsdal. Hann lifði í ástúðlegu hjónabandi saman við fyrri konu sína 26 ár.

þá andaðist hún 8. nóvemberm. 1852. þau höfðu átt saman 14 börn, og lifa átta þeirra enn, fá frumvaxta. Einn sonur hans er kvongaður og búandi á Arnheiðarstöðum. Annað sinn kvongaðist Guttormur 30. júní 1854 og gekk að eiga Kristínu Jónsdóttur, prests á Hofi í Álptafirði, Bergssonar prests á Stafafelli. þau áttu saman 1 son, sem lifir. Litlu síðar andaðist hún 28. júlím. 1855. Eptir það lifði hann ekki nema rúmt ár.

þegar faðir hans var andaður árið 1841, og hann varð einn um ráðin, fór hann algjörlega að hressa við ábýlisjörð sína og bæta búskapinn með öðru móti í sumu enn áður var títt. Sýndist þá brátt að hann var afbragð flestra annara í búskapi og ljet sjer fremur mörgum öðrum annt um að efla búsæld og vellíðan meðbræðra sinna.

Oss virðist ekki standa minni heill af því fyrir heilar sveitir og jafnvel heilt land, að gjörast forgöngu- og hvatamaður annara í því, sem eflir velgengni manna, skynsamlega og ráðdeildarsama bústjórn og meðferð á öllu, sem skaparinn gefur mönnum til gagns og gleði í lífinu — oss virðist ekki minni farsæld standa af þessu, en þó menn standi vel í einhverju embætti. Með því vellíðun hverrar þjóðar þarf að eiga sjer rót á hverju heimili hennar, þá getur fyrst góð embættastjórn orðið til fullra nota, þegar hverr vandar sig og hverr búandi stendur sómasamlega í sinni

stett. Því þykir oss líka vert að minnast hjer á búskap og heimilisstjórn Guttorms sál. og afskipti hans af hag annara.

Hann sá glöggt að enn var margt ólag á búskaparháttum manna, jarðirnar höfðu margfalt meiri gæði fólgin í sjer, enn menn höfðu þekkt og notað, og fjenaðurinn gat orðið langtum betri, enn hann hafði reynzt. Því fór hann að bæta fjárkyn sitt snemma í búskapnum og sýndi öðrum að þetta var auðvelt. Enda átti hann lengi eitthvert bezta fje, þangað til fleiri tóku sömu ráð og komu upp jafngóðu. Það var eitt ráð, sem hann tók upp fyrstur manna á austurlandi, svo vjer vitum, að láta allan gamlan ásauð og þann, sem var ljettvægur til málnýtu eða óálitlegur til undaneldis, ganga geldan eitt ár og skera síðan. Þetta ráð hafa mjög margir búendur tekið upp hjer um sveitir og haft mikið gagn af. Einstakir menn munu hafa borið við, áður enn Guttormur að hleypa vatni á engjar, en engir á tún hjer um sveitir. Hann sá þetta ráð mundi vera hinn fljótasti og arðmesti jarðabóti, svo þær gæti borið fleiri gripi; því lagði hann mikla stund á það og gjörðist í því fyrirmynd annara. Þegar hann fjekk umráð yfir ábýlisjörð sinni, mátti fá þar í meðal ári tæp 5 kúafóður af töðu; en seinustu búskapar ár hans fjellu af túninu til jafnaðar 14 kúafóður. Því hann leiddi vatn yfir það allt og

hafði stækkað það meira enn um helming, með þessu og annari ræktun. Útengið bætti hann líka, eins og kostur var á, svo jörðin bar nú meira, en hálfu meira sauðfje, við það er áður var, og þó langtum betur haldið nú, en fyrr. — Þegar hann var búinn að koma vatnsveitingum sínum í lag og þær annir minnkuðu, fór hann að koma upp jarðeplarækt hjá sjer, fyrstur manna hjer um sveitir, svo nokkuð kvæði að. Þetta heppnaðist honum síðan betur, enn flestum öðrum, og fjekk allt af síðustu árin hjer um 30 tunnur jarðepla hvert haust. Nú fór hann að leggja hug á útlenda jarðarækt, fjekk sjer áhöld til hennar og jarðyrkjumann til að plægja hjá sjer og öðrum. Svo reyndi hann að sá jarðeplum og korni í plægða reiti og heppnaðist hvorttveggja allvel. Því öll aðferð hans við þetta var eins og í öðru ráðdeildarleg og umhirðusöm.

En hann ljet sjer það ekki vera nóg, þó hann byggi vel sjálfur og sýndi öðrum góða búskaparháttu, heldur lagði hann jafnframt alvarlega hug á, framar flestum öðrum, sem vjer höfum þekkt, að meðbræðrum sínum færi líka fram og hagur þeirra batnaði. Hann hvatti aðra til að taka sömu ráð, og hann hafði sjálfur reynt, eða önnur, sem vel áttu við á jörðum þeirra, og gekkst eptir að byrjað væri framkvæmdunum. Árið 1850 stofnaði hann vorfund í Norðurmúlasýslu og hjelt slík-

um vorfundum uppi meðan hann lifði við bærilega heilsu. — þeir voru fyrst stofnaðir til að undirbúa alþingismál, en snjerust brátt að búskaparhag manna. þá fylgdi hann kappsamlega að því, að stofnuð væri jarðabóta eða búnaðarfjelög í sveitunum, til að koma í verk ýmsum endurbótum, er lagað gæti búskap manna og eflt vellíðun þeirra. Sjálfur kom hann á, meðal enna fyrstu, jarðabótafjelagi í sinni sveit og var jafnan formaður þess. Hann stuðlaði líka til þess að koma á verzlunarsamtökum, hvar sem hann gat, einkum í sinni sveit; og varð þar töluverður hagur að þessum tilraunum, eins og hinum í jarðabótafjelaginu. Opt reyndi hann til að hvetja menn til að gjöra samtök að stofna búnaðarskóla, en þær tilraunir urðu árangurslausar.

Árið 1838 stofnaði hann bindindisfjelag í sinni sveit; eyddi það um hríð nautn áfengra drykkja að mestu leyti í því byggðarlagi Hann átti jafnan bezta þátt í ymsu góðu skipulagi, sem komst á í hans sveit, framar enn í sumum öðrum, því hann var hygginn í tillögum sínum og hinn góðgjarnasti, enda lagði allan hug á, að sem flest gæti staðið gott af sjer. — Margir leituðu ráða til hans, sem einhverr vandi var á hendi; og þótti það jafnan verða að bezta hvarfi.

Hann var sáttamaður í Fljótsdal 12 ár. þegar alþing var sett, var hann kosinn varafulltrúi

og sat 2 þing 1847 og 49. Seinna árið var hann kosinn þjóðfundarmaður og sat það þing 1851. Ári seinna var hann enn kosinn alþingismaður, en fór ekki á þing 1853, því þingköllun hans kom þá ofseint. En árið 1855 varð hann að segja af sjer þingreið vegna heilsuleysis.

Ekki vitum vjer til að hann sækti um prestsembætti, sízt á seinni árum sínum; en hitt vitum vjer, að hann hafnaði því, þó hann ætti kost á að fá það. Samt æfði hann sig alla tíð nokkuð í guðfræði; eptir að hann varð stúdent svaraði hann lengst af spursmálum byskupa í guðfræði, prjedikaði opt og hjelt tækifærisræður, þegar ástvinir hans fjellu frá [1]. — Lýstu þær allar guðrækilegu hugarfari hans, viðkæmu og blíðlyndu hjarta og geðjuðust mönnum vel. Opt spurði hann unglinga, svo prýði þótti á, og innrætti þeim kristilegt hugarfar og siðprýði. Nokkrar greinir eru til eptir hann prentaðar í dagblöðum, og í Nýjum Fjelagsritum eru ritgjörðir um jarðeplarækt og vatnsveitingar, sem hann hefur ritað.

Guttormur sálugi hafði farsælar gáfur, eins og áður er sagt, var hugvitssamur og skynsamur og glöggur að sjá hvað bezt hagaði í hverjum hlut, sem stuðlaði til að efla sóma og gagn manna. Ljett var honum um mál, en stundum fremur

---

[1]) Vjer munum láta eina tækifærisræðu hans fylgja þessu æfiágripi.

langorður, og hugunin þótti ekki svo ljós, þegar hann talaði um þau mál, sem mönnum voru lítt kunnug. Hann var bráðlyndur maður, mjög viðkvæmur og hinn hjartabezti. Þó kunni hann vel að stýra geðsmunum sínum, einkum á seinni árum, hve nær sem það átti bezt við, en hlífðist þó ekki við að vandlæta um það, sem ekki sómdi. Guðhræddur maður var hann og trúarstyrkur, þakkaði Drottni af hrærðu hjarta allt meðlæti, en bar mótlætið með þolinmæði. Um þetta vitnuðu jafnan orðræður hans. Það mátti líka skilja af ýmsum ræðum, sem hann samdi og stökum, sem hann orti endur og sinnum, því hann var dálítið hagmæltur. Vjer setjum hjer 2 smákvæði eptir hann, sem vjer minnumst, og einn af vinum hans hefur sent oss með hans eiginhendi.

## Á gamlárskvöld 1853.

Íhugun Guðs handleiðslu á mjer umliðna æfi.

1. Ó! hvað stór er ástin þín, alheimsbóla stýrir! speki þín mjer skærust skín í skugganum þar eg hýrist.

2. Mjer er ekki mögulegt miskun þinni lýsa. Hjartað fær þú, Faðir! þekkt, er fegið vill þig prísa.

3. Ó! hvað furðu frábær er föðurást þín, Drottinn! æfin mín þar öll um ber ótvílugan vottinn.

4. Ungan lagðir á þitt brjóst, orði þínu nærð-

ir, aldraður svo að leynt og ljóst lofgjörð þjer eg færði.

5. Þú hefir satt og svalað mjer á sannleiks orði mæta, og allsháttaðri auðlegð hjer ást þín rjeði bæta.

6. Þú hefir leitt mig lífs um stig með lukku og þrautum bæði, að eg jafnan elski þig og æðri sælu næði.

7. Þú hefir leitt og laðað mig, með ljúfu ástargeði að yfirgefi' eg aldrei þig, þó afvega ganga rjeði.

8. Þessa fórn eg færi þjer, faðir! af geði hlýu, árin mín þá uppfyllir átta og fjörutíu.

## Man eg!

Endurminning á gamlaársdag 1853.

1. Man eg minn mætan föður,
man eg ágæta móður.
Man eg unnustu og elsku
allra bezta eg festi.

2. Man eg mín blessuð börnin,
brott hjeðan flutti Drottinn.
Man eg vinina völdu,
á vist sem eru með Kristi.

3. Man eg ástina öfl'gu
óbrjálaða án tálar.
Man eg tryggðina traustu,
er tengir oss saman lengi.

4. Man eg helmyrkrin hörðu
og hrollinn, sem þau ollu.
Man eg kveðjurnar kærstu
og kossa með tára fossi.
5. Man eg þá, Guð minn góður!
hvað gott var að finna Drottinn.
Man eg himinljós hærstu,
er hugga æ hjartað hnuggið.
6. Man eg heitin Krists helgu
og hjálpar orð gefin forðum.
Man eg bústaðinn bezta
búinn Guðs vinum trúu.

Vjer vitum ekki betur enn honum heppnaðist allt vel, sem hann byrjaði í búskapnum og öðru, og kæmi öllu í verk, sem hann lagði mikinn huga á. Því hann var fastlyndur, hygginn og framsýnn og hinn bezti húsbóndi, stjórnsamur og nærgætinn að ætla hverjum það verk, sem hann var helzt maður til, og bar mikla umhyggju fyrir heilsu og vellíðan hjúa sinna. Hann var glaður og bliðlyndur við fólk sitt og vann allt, sem kostur var á með góðu, og vandaði þó um og ljet taka til sín, þegar þess þurfti. Enda brast honum aldrei nóg þjónustufólk. Hann var ætíð hinn ástúðlegasti við konur sínar og börn og bar alvarlega umhyggju fyrir vellíðan þeirra. Gestrisinn var hann og mannúðlegur við hvern, sem til

hans kom, og við vini og kunningja var hann einhverr hinn blíðasti og yndislegasti maður heim að sækja.

Sjúkdómur sá, sem dróg hann til dauða, byrjaði í fyrstu af snöggum kulda eptir mikinn hita — að því, er hann sagði oss sjálfur — og voru mörg ár síðan. Hann tók móti heyi í hlöðu og var ákaflega sveittur. Um kvöldið gjörði á kuldanæðing. Þá kom maður, sem átti erindi við hann og kallaði hann út úr hlöðunni. Þeir stóðu æði stund úti. Næsta dag var Guttormur altekinn með styngjum og máttleysi, köldu og hita í öllum líkamanum. Þessi veiki varð þung og langvinn og settist mest að brjóstinu og undir síðurnar. Eptir þetta var hann jafnan heilsulítill og lagðist opt hættulega, einkum ef hann varð fyrir snöggum umskiptum hita og kulda. Beztu heilsu sagðist hann hafa á ferðum, þegar hann reið góðum hesti; en hann átti reiðhesta jafnan afbragðs góða og kunni manna bezt að fara með þá. Haustið 1854 varð hann fyrir kulda og hrakningi á heimleið úr kaupstað og veiktist á eptir með flugtökum, hita og verk undir síðunum. Þó ljetti honum nokkru seinna, svo hann var optast á róli um veturinn. Þá veiktist seinni kona hans af brjóstveiki og andaðist um vorið, nokkru eptir barnsburð. Hann fylgdi henni með þjáningu til grafar og þyngdi síðan. Mánuði seinna fjekk hann ákafan blóð-

uppgang, sem eyddi mjög kröptum hans. Þó þetta aðkast rjenaði eptir nokkra daga, var líkaminn máttfarinn og mjög veikur einkum fyrir brjósti og undir vinstri síðu. Hann þjáðist opt af hósta með uppgangi, sem virtist koma frá meinlætum. Lífsaflið smáminnkaði þangað til hann fjekk blítt og rólegt andlát hinn 12. septemberm. 1856. Viku áður hafði hann kallað öll börn sín til sín, talaði fyrir þeim nokkrar fagrar lífsreglur, kvaddi þau hvort eptir annað og fól þau Guði.

Stutt skýrsla um fráfall og útför Guttorms sál. stendur í Norðra, 78.—79. blaði.

Skrifað í marzm. 1857.

**Sigurður Gunnarsson.**

---

# Húskveðja yfir líki

prestskonunnar **þóru Jónsdóttur** í Vallanesi,
eptir
**Guttorm** stúdent **Vigfússon.**

---

Náð og friður af Guði vorum Föður sje með öllum hjer nálægum, sem elska Drottinn vorn Jesúm Krist!

Háttvirtu og heiðruðu náungar og vinir! Jafnvel þó jeg finni glöggt að jeg er ei fær um að tala í þetta sinn, og það í áheyrn jafn verðuglegs samkvæmis, sem hjer er nú, og við eins mikilvægt tækifæri, sem það, er kallað hefur oss saman úr ýmsum áttum á þenna stað, þá get jeg samt ei bundizt þess. Hluttekningin, sem nú býr mjer í brjósti, elskan og þakklætið, sem eg er um skyldugur þessu heiðraða húsi, knýr mig til þess. — Elskanlegir! ljáið mjer því litla stund yðar góðfúst eyra og vægðarsama upptekt á fáeinum orðum, er jeg dirfist nú að frambera í nærveru yðar! Aldrei finnum vjer eins glöggt til þess, hvað veikar og vanmegna skepnur vjer menn-irnir erum og sjálfum oss ónógir, eins og þeg-ar hersveitir mótlætinganna sækja að oss á einn eða annan hátt, þá heilsan bilar, kraptar vorir

þverra, vinirnir fækka, eða eitthvað það að ber, sem tálmar vorum fyrirtækjum og áformum, stöðvar vorar framkvæmdir og sviptir oss eða raskar venjulegri rósemi, unun og gleði. þegar svona er einhvern veginn ástatt fyrir oss, þá er eins og allt ætli að sameina sig til að yfirbuga oss. þá leita efasemdirnar með tvöföldum ákafa á oss, er vjer erum sem veikastir fyrir á einhvern hátt. Aldrei er mannlegu hjarta meiri þörf á guðlegri opinberun, heldur enn þegar þannig er ástatt fyrir oss, aldrei meiri þörf á að geta fundið Guð og kannast við hans vísdómsfulla og gæzkuríka stjórn og nákvæmu afskipti af högum vorum, hvers út af fyrir sig. Sannarlega værum vjer vesælastir allra Guðs skepna á jörðinni, ef vjer ekki þekktum þetta og könnuðumst ekki við það; ef vjer ekki þekktum neitt æðra, sælla og betra, enn það, sem vjer höfum nú við að búa; ef vjer hefðum ekkert hæli að flýja í, þegar í raunirnar rekur, engan staf að styðjast við, engan stólpa að hallast að og hvíla við vor sorgmæddu og örþreyttu höfuð, á hinni vondu og þungbæru tíð, á hinum erviða degi neyðarinnar.

Lofaður veri því hinn eilífi brunnur miskunsemdanna, sem ekki hefir látið sig vera án vitnisburðar fyrir oss, sem búum á þessum útskaga veraldarinnar, hann sem af óumræðilegum kærleika einum vildi ekki, að vjer skyldum lifa hjer í von-

arlausu og kveljandi ásigkomulagi, heldur hefir kveikt og glætt ljós trúar og vonar í hjörtum vorum, fyrir sinn elskulegan son Jesúm Krist, sem hann gaf öllum heimi og oss til líknar og frelsis, svo vjer fyrir hann þekkjum nú Föðurinn á himnum, þekkjum tilgang vorrar tilveru hjer, og vora ákvörðun síðarmeir; þekkjum og könnumst við að mótlætingar þessara tíma eru ekki þess verðar, að þær metist nokkurs í samanburði við þá dýrð, sem síðar skal við oss opinber verða, og getum því fundið huggun og gleði mitt í sorgum, þrautum og þjáningum þessa heims, með því vjer getum sjeð hjer morgunroða eilífðarinnar og fundið forsmekk þeirrar sælu, friðar og fagnaðar, sem bíður vor annars heims.

Æ mínir háttvirtu náungar og vinir! Vjer skulum þá ekki kasta stafnum, þegar ríður hvað mest á að styðja oss við hann. Vjer skulum safna oss forða af hinum lífkröptugu orðum Frelsara vors, þeim er hann gaf oss til huggunar og styrkleika í því ásigkomulagi, sem vjer erum nú.

Ó, elskanlegir! Vjer skulum flýja til hans, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið, kasta oss í hans miskunar arma og halla vorum þreyttu höfðum að hans blessuðu brjósti.

Guð hjálpi oss öllum, amen!

Vjer vitum öll, sem hjer erum samankomin, hvílíkt mótlæti og hryggðarefni er nýborið að hönd-

um þessu heiðraða húsi. Vjer getum með sanni sagt að það er harla mikið og má reiknast meðal hinna þungbærustu, þegar vjer lítum til þess, sem næst er fyrir hendi. Því hjer liggur nú frammi fyrir oss, innan þessara skuggalegu fjala, andvana líkami hinnar ágætu og merkilegu húsmóður þessa heimilis „madömu“ Þóru Jónsdóttur, sem burtkallaðist hjeðan nóttina milli hins 18. og 19. þessa mánaðar, eptir 6 daga harðasta og bitrasta dauðastríð.

Um leið og vjer minnumst nú þessa sorgar atriðis, er lætur oss finna til þungbærrar hryggðar og pressar út af oss beizk saknaðar tár, viljum vjer einnig oss til huggunar, endurminnast með fám orðum hinna helztu fullkomleika og frábæru kvennkosta þessarar vorrar burtsofnuðu heitt elskuðu systur, þeirra dyggða, sem skynu svo fagurt á henni alla hennar lífdaga, í hennar margháttuðu lífskjörum, og sem auðkenndu svo fagurlega líf hennar, að hún, eptir rómi allra þeirra, sem hún umgekkst, eða hafði kynni af, og jafnvel á fjarlægum stöðum, var álitin að vera afbragðskona og eitt fegursta blóm ættar sinnar, í orðsins fyllstu merkingu.

Hvert heldur sem litið er til hennar sem ektamaka, móður, húsmóður, náunga eða vinar komu hvervetna í ljós og skynu hjá henni á feg-

ursta hátt, fullkomleikar hennar, kvennkostir og dyggðir.

Hún, sem runnin var af hinni auðnusælu rót Jóni og Þóreyju (er margir af oss þekktu) reyndist, eins og öll þeirra börn, frábær að sálar og líkams þreki og atgjörfi, enda raktist furðanlega úr því alla hennar æfi. Því þó Guð blessaði hana með einu lífs afkvæminu eptir annað, því árlega, eptir að hún gekk í heilagt hjónaband með hennar, nú særða og sártharmandi, heiðraða ektamanni, og þrátt fyrir það, þó Guði þóknaðist að láta hana, snemma á æfinni kenna á vanheilsu og svipti hana síðar að miklu leyti heilsunni, svo hún varð tímum saman að halda við rúmið, gekk hún þó ætíð, þá af henni bráði eða þá hún hafði náð aptur nokkrum styrk, til sinna margháttuðu skyldu starfa, sem á henni hvíldu, sem ektamaka, móður og húsmóður, með þeirri rósemd og glaðværð, ást og stillingu, þolinmæði og umburðarlyndi, sem hún jafnan hafði tamið sjer. Og þó eitthvað gengi aflaga, eða færi á annan hátt enn vera ætti, meðan hún var sjúk, kippti hún því aptur í lag, með iðjusemi og dugnaði, reglu- og stjórnsemi sinni.

Eins og sannkristinn maður og prýðilega vel að sjer í guðsorði, var hún jafnan ánægð með Guðs ráðstöfun og vottaði sig ætíð í meðlæti sem mótlæti, er Guð úthlutaði henni, þakkláta, hóg-

væra, þolinmóða og auðmjúka þjónustukvinnu Drottins. Og seinast á hinni hörðu tíð, þá hún átti í stríði við dauðann og mitt undir hans bitrustu átektum, stríddi hún, sem sannkristin hetja, örugg og ókvíðin, undir merkjum Frelsara síns og sem sannur lærisveinn hans. Mannelska hennar var svo mikil og hjartagæzkan svo frábær, að það var hennar mesta unun og gleði að gjöra gott og útbreiða, sem mest hún megnaði, farsæld og gleði, svo það er ei ofsögum sagt um hana að hún var guðelskandi mannvinur.

Hún var að vísu ekki gömul, að eins fullra 44 ára, þegar hinum algóða Föður þóknaðist að leysa hana hjeðan og leiða til sín, en hún hafði afkastað svo miklu til farsældar og gleði húsi sínu og úti frá, að eptir fáa í hennar stöðu, þó hærra aldri nái, mun liggja jafnmikið, fagurt og lofsvert, því síður meira; og munu þó fáir geta lýst því, eins fullkomlega og það í sannleika var, allrasízt jeg.

Þú, minn háttvirti og heittelskandi vin og bróðir, sem sjer nú á bak þínum fullkomnasta og dyggðaríkasta ástvini, þeim ástvini, sem þegar á æskuskeiði hafði tengzt þjer hinu helgasta og styrkasta ástarbandi, og sem svo lengi og fagurlega hafði fylgt þjer, með staðfastri óslítanlegri tryggð og trúfesti, á hinni all opt mæðusömu og örðugu lífsleið ykkar — þú sjer þig nú svipt-

an úr faðmi þjer þinni dýrmætustu eign á jörðunni, þínum bezta vin, þinni öruggustu aðstoð og lítur þig nú eins og einmana eptir, mitt innan um mannfjöldann. Og þið blessuð viðkvæmu, ástvönu börnin góð! Hvaða sár má yður finnast móðurmissirinn! Hverr fær upp talið allt, sem yðar hjarta hefir nú að bera og særir yðar viðkvæmu tilfinningar? Hverr fær metið það tjón sem þjer hafið hlotið? Sannlega eruð þjer særð því sári, sem yður má finnast valla eða ekki læknandi. Guð hjálpi og oss öllum! Skyldi jeg ekki geta fundið til einhvers af því, sem þjer hafið nú að bera? jeg sem ratað hefi í sömu raunirnar, sem þjer nú. Æ! mig langar til að jeg gæti eitthvað ljett undir byrði yðar, en jeg get lítið annað en grátið með yður. Og mun nokkur lá oss, þó vjer svölum oss með því að úthella nú nokkrum saknaðartárum? það er vissulega sú hrygðin, sem er eptir Guði.

Hverr láir það hinum bezta og trúfastasta ektamaka, þó sorgin leggist þungt á hann, þegar hann sjer, að sá er ferðbúinn að flytjast að öllu-leyti úr húsum hans, sem var mesta prýði hússins, yndi augna hans, hans trúfastasti og ástheitasti förunautur á lífsleiðinni, hans óbryggðull ráðanautur í öllum hans lífs kringumstæðum, og sjer sig nú einmana eptir, með blessaðan barnahópinn þeirra, sjer sig nú sviptan því, sem var

honum dýrmætast af öllu hjer í heimi, sjer sig nú sviptan þeirri styrku stoð, sem að fullum helmingi hjelt uppi húsinu?

Og mun nokkur lá það blessuðu börnunum, þó þau hafi ekka og andvarpi þungan, er þau hafa misst þá móðurina, er fáa átti sína líka að ást, umhyggjusemi og skyldurækt, sem aldrei mátti sjá neitt að þeim ganga, án þess að hið ástheita og viðkvæma móðurhjarta væri strax reiðubúið að mýkja mein þeirra eða bæta? Hverr, sem þekkir til þess, hvílík húsmóðir hún var, mun viðurkenna að það sje engin furða, þó hjúin horfi nú hryggum augum eptir þeim ástvini sínum, sem eins og bar þau, í blíðu og stríðu, á örmum sjer, umfaðmaði þau í ástsemd, þá þau voru hrygg, og útbreiddi með stakasta umburðarlyndi og þolinmæði, unun og gleði meðal þeirra. Má vera, að sum þeirra hafi misst við fráfall vorrar elskuðu, meira enn flestir aðrir, og bíði þess seint eða aldrei bætur.

Hvað megum vjer þá segja, hinir aðrir náungar hennar og vinir? Vort sár er einnig mikið og tilfinnanlegt. Vjer höfum misst með þessari vorri ástríku systur einhvern hinn tryggasta og innilegasta ættingja og vin. Hverr af oss er sá, er ekki minnist þess með þakklæti, hversu blessaður blíðufaðmur hennar var ætíð útbreiddur móti oss, hversu hýran skein úr augunum og

blíðubrosið ljek um varir hennar, hvenær sem vjer komum á hennar fund, og hversu allt var í tje, er hún gat upphuxað að oss vera mætti til gleði og ánægju, að jeg ekki tali um hvað hún var fús og reiðubúin að liðsinna, ef þess var leitað, að hugga, ef á þurfti að halda; því, eins og vjer höfum vikið á, var hennar unun að gjöra gott og útbreiða forsælu og gleði, svo mikið sem hún ýtrast megnaði. Og svo sem hún var elskurík á allan hátt, svo var hún einnig staðföst í elskunni, því hún elskaði sína til enda. Hvert skyldum vjer ei finna til þess, að oss öllum er tilfallið hið mesta sorgar- og saknaðarefni, þegar vjer lítum til þess, hvað hver fyrir sig af oss hefir misst við fráfall þessarar ástríku systur vorrar, eptir því sambandi sem vjer stóðum í við hana? Jú, sannarlega munum vjer allir játa, að ef vjer lítum einungis til hins nærveranda, mundi fráfall hennar vera oss nær því óbærilegt.

En — mínir elskanlegu! með því vjer göngum í ljósi Guðs orða, þá hæfir ei vjer syrgjum eins og þeir, sem enga von hafa, heldur ber oss, sem meðtekið höfum náðarlærdóminn Jesú Krists, sem hans sannir lærisveinar, að taka undir með hinum mikla postula og segja: „Eg em vel til friðs í nauðunum, í þrengingunum, í ofsóknunum, og — sje Guð með oss, hvað getur þá verið móti oss“?

Elskanlegu! Aldrei sýnir Guðs orð, eða heilög trú vor, eins skýrt og áþreifanlega, hvílíkan krapt hún hefir í sjer fólginn, hvílíka gnótt gæða, himneskrar huggunar, friðar og fagnaðar, hún hefir að bjóða hinum sannkristnu, eins og þá vjer erum á einhvern hátt þjakaðir og umspenntir af þessa heims mótlætingum; og þó jeg viti fyrir víst, að þú minn háttvirti ættbróðir! sem sárast ert særður, geymir Guðs orð innst í hjarta þínu, nú sem endrarnær, og styrkir þig með þeim guðdóms krapti, sem í því er fólginn, og þó jeg sje sannfærður um, að allir, sem hjer eru nærverandi og orð mín heyra, sjeu svo mentaðir í Kristsʼ lærdómi, að þeir geti sjálfir safnað sjer fjársjóðum þar af, sjer til lærdóms og huggunar, vil jeg samt leyfa mjer að benda yður á nokkur enna lífkröptugustu orða Frelsara vors, þau er hann eptirskildi heiminum og oss til huggunar, þegar eins væri ástatt fyrir oss, og nú er. Jeg vil fyrst ávarpa yður með þessum óviðjafnanlega dýrmætu orðum hans: „Komið hingað allir þjer, sem erviðið og þunga eruð þjáðir, jeg vil endurnæra yður“. Og þó þessi háleitu orð væri töluð til þeirra, er stynja undir syndabyrðinni, ætla jeg þau nái einnig til vor, þegar vjer erum eins stödd og nú. Eða mun ei brunnur miskunsemdanna hrærast eins til miskunar við öll sín börn, sem í nauðum eru stödd, á hvern hátt sem það er?

Hvort mun hinn eilífi kærleiki geta afneitað sjálfum sjer og hætt miskunsamur að vera? Nei, m. e.! flýjum í miskunarfaðminn og umföðmum vorn Frelsara í trúnni! Hyggjum enn fremur að, hvað hann hefur sagt, af sínu háleita guðdómsvaldi, til huggunar hinu sorgmædda og sundurkramda hjarta: „Sælir eru harmþrungnir, segir hann, því þeir munu huggaðir verða“. „Sjá“, segir miskunarröddin: „eg em upprisan og lífið, hverr sem trúir á mig, hann skal lifa þó hann deyji, og — þeim, er fylgja mjer og þekkja mína röddu, gef eg eilíft líf; þeir skulu aldrei glatast, og enginn skal slíta þá úr minni hendi“. Hann, sem hefur sagt þetta, hefir einnig lofað að vera forsvar ekknanna og hinna munaðarlausu, og hefir boðið þeim að vona á sig, og hann iðrar ei sinna loforða, því að hann er sannorður og trúr; þess vegna hefir hann sjálfur sagt: „Himinn og jörð forgengur, en mín orð mega með engu móti fyrirfarast. Og enn fremur heyrum vjer hann segja, þegar stund hans burtfarar af heiminum var í nánd: „Eg fer hjeðan að tilbúa yður stað, svo að þjer sjeuð þar sem eg er“. Mínir háttvirtu, ástkæru vinir! þegar vjer höfum safnað oss þessum háleitu, huggunarríku lærdómum og guðdómlegu fyrirheitum og vitnisburðum í eitt, ættum vjer að geta trúaröruggir tekið undir með post-

ulanum: Herra! til hvers annars ættum vjer að fara, þú hefir orð eilífs lífs? (Jóh. 6, 68.).

Þegar vjer, segi jeg, söfnum þessum og þvílíkum dýrmætum fjársjóðum kristinnar trúar svo sem í eina mikla ástæðu, munum vjer kannast við, að oss ber að fagna mitt í sorginni og vera glaðir mitt í mótganginum og varpa allri vorri áhyggju upp á Drottinn, sem vjer vitum að er annt um oss. Vjer hljótum að vera sannfærðir um, að mótlætingar þessara tíma eru ei þess verðar að metast í samanburði við þá sælu, sem oss er geymd annars heims, og guðhræddir eilíflega njóta. Ó, elskanlegir! stillið því harm yðar! stöðvið yðar sorg! vitið fyrir víst, að það er hinn mikli Guð, hinn voldugi stjórnari himins og jarðar, í hvers hendi ekki einasta er hlutskipti, þjóðanna, heldur einnig hvers einstaks manns, sem hefir svo nákvæm afskipti af högum vorum, að jafnvel höfuðhár vor eru af honum talin, og ekki fellur einn titlingur til jarðar án hans vilja, því síður vjer, sem hann metur meir enn marga titlinga — það er hinn gæzkuríki Faðirinn, hinn eilífi kærleiki, sem elskaði oss svo heitt, að hann gaf oss sinn eingetinn elskulegan Son og alla góða hluti með honum, sem gaf hann í dauðann fyrir oss og alla menn, — það er þessi mikli, visdómsfulli og gæzkuríki Drottinn vor, sem tók til sín vora heitt elskuðu systur, sem vjer söknum nú og

syrgjum svo sáran. Ó, mínir vinir! leggjum hönd á munn vorn og þegjum fyrir Drottni! beygjum oss í sannri auðmýkt undir hans volduga hönd, undir ráð og vilja vors himneska Föðurs, og segjum af hug, hjarta og munni: Faðir, verði þinn vilji!

Þakkið Guði, m. e.! af öllu hjarta, honnm, sem gaf yður svo dygðaríkan, tryggan og ástríkan vin, yður til fylgðar, aðstoðar og gleði á lífsleiðinni! Lofsyngið með Job: Drottinn gaf, Drottinn tók, lofað sje nafnið Drottins!

Já, Drottinn gaf yður hana og gaf yður hana lengi og vel; og þó hann tæki hana nú aptur frá yður, má ske fyrr enn yður varði og fyrr enn þjer hefðuð óskað, ef valið hefði verið á yðar valdi — þá vitið fyrir víst, að það er í vísdómsfullum og gæzkuríkum tilgangi skeð; og þó vjer skiljum það ei að fullu nú, þá munum vjer síðar sannfærast þar um. — Það er svo gott að eiga allt sitt ráð í hendi hins alvísa. Vjer erum svo skammsýnir, að vjer sjáum ei hvað oss er fyrir beztu. Vjer kveinum opt sáran undir baráttu þessa lífs og mótlætið særir oss. En mótgangurinn er oss þó nauðsynlegur til vorrar fullkomnunar. Með honum leiðumst vjer og venjumst til að meta rjettilega þenna heim og hans gæði, og að leita annars, sem er æðra, fyllra og sælla, enn þetta stundlega og hverfula er. Það vekur í oss kappið að leitast við af

fremstu kröptum að lifa svo dygðugu og ráðvöndu líferni hjer, að vjer getum verið vissir um vora útvalningu, vissir um að fá að sameinast aptur ástvinum vorum, sem á undan oss eru hjeðan farnir inn á land lifandi manna. Já! mótlætið er oss nauðsynlegt, til að leiða oss og venja til þolinmæði, og til að fela oss í undirgefni og öruggu trausti á vald Guðs, og leita vorrar kærustu gleði af að halda oss til hans í trú og von, bæn og tilbeiðslu.

Vjer skulum þá ei kvarta nje klaga, v. m.! þó mótlæti hafi nú borið oss að höndum, því vjer erum sannfærðir um, að vor heittelskaða systir er, að ráði og vilja vors himneska Föðurs, frá oss tekin; og hlýtur það því að vera henni og oss til hins bezta. Vjer viljum þess vegna, styrktir af þeirri trú, segja með Frelsaranum: Faðir! verði þinn vilji.

Ó, elskanlegir! Jeg veit að það er yðar mesta huggun nú, þegar að gleðjast af tilhugsun þess frelsis og fagnaðar, sem þessi vor ástvina nýtur nú í sameiningu við Guð og Frelsara sinn, sem hún hafði svo lengi, sem lífsþráðurinn entist, tamið sjer að elska og eptirfylgja. Hún uppsker nú ríkuglega ávöxtinn trúmennsku sinnar og ástsemi, er hún sýndi hjer. Hún var trú yfir litlu og mun því setjast yfir mikið. Hún vann með-

an dagurinn entist með hinni mestu samvizkusemi og skyldurækt að því verki, sem Drottinn hafði falið henni á hendur, unz hún var ei lengur fær um það. Hún var orðin lúin af sínum erviðu og margháttuðu skyldustörfum, og það sá hinn nærgætni Faðir; því hefir honum þóknast að hvíla hana, því hann hefir fundið hana, eptir speki sinni og gæzku, hæfari til að vinna í hinum himneska víngarði. Hún er nú afklædd forgengilegleikanum og íklædd óforgengilegleikans eilífa skarti; frí og laus við mæðu og erviði og allskonar tálmanir, sem þrátt leggjast í veg fyrir oss, meðan vjer dveljum hjer í dauðlegleikanum, þjónar hún nú Guði og Frelsara sínum með þeirri iðju, sem aldrei lýr, í sameiningu við hina sælu anda og alla útvalda, þar sem vjer vonum innan skamms að finna hana aptur, uppyngda af krapti eilífs lífs og uppsprettum ódauðlegleikans, þar sem engin pína, angist eða hrelling snertir hana, og enginn aðskilnaður verður framar, heldur ævarandi samfögnuður og eilíf sæla í framför og fullkomnun.

Hún kveður yður nú, ástvini sína, hjer á jörðunni, um leið og hún yfirgefur að fullu og öllu þetta heiðraða hús, sem hún svo lengi og fagurlega hafði uppbyggt og margfaldlega blessað á ýmsan hátt. Hún þakkar yður innilegast, öllum ástvinum sínum, fyrir allt gott, er þjer í orði, viðmóti eða verki vottuðuð henni hjer; en eink-

um er sem vjer heyrum hún þakki, með viðkvæmustu hjartans tilfinningum og ástsemi, sínum heittelskaða ektamanni, fyrir hans elskuríku og trúföstu umhyggju fyrir sjer, og aðstoð á lífsleiðinni. Hún ávarpar yður einnig, blessuð börn sín, nú í síðasta sinni hjer í heimi — þjer vitið hvernig móðurástin brann í brjósti hennar — hún biður yður að minnast sín alla yðar lífdaga, og láta þá endurminningu koma yður til að halda fast við þann veg, sem hún hafi vísað yður á og reynt að kenna yður, að ganga þann veginn, sem einn leiðir til Guðs, til farsældar hjer og annars heims, til samfjelags við alla útvalda, í hverra flokki hún nú er. — Hún biður yður enn fremur og eins og hvetur yður alvarlega, þjer, sem eldri eruð og hún var búin að koma nokkuð áleiðis, að endurgjalda sjer móðurástina, umhyggjuna og erviðið fyrir yður, með því að feta í fótspor sín, einnig í því, að ljetta svo mikið, sem yður er mögulegt, undir byrðina með yðar aldurhnigna, þreytta og einmana föður, og styrkja hann til að uppala í Guðs ótta og góðum siðum yðar yngri systkyni, sem hún varð nú að yfirgefa skemmra á leið komin enn yður. Já, hún hvetur yður til að halda áfram leiðar yðar í Guðs ótta, í einingu andans, hreinum kærleika og innbyrðis ástsemd hvort til annars. Og hún þakkar yður einnig fyrir auðsveipnina, er þjer, sem góð börn, vottuðuð henni.

Og yður, hjúin sín góð! kveður hún með kærleiksfullu þakklæti fyrir yðar trúu og hollu þjónustu við sig og hús sitt. Hún biður yður einnig að minnast sín og halda áfram sömu trygðinni og hollustunni við sig og það; því, þó hún sje horfin frá yður um stund, sje það samt að álíta sem sjer auðsýnt, er þjer auðsýnið hennar elskaða ektamanni og börnum. — Vjer, hinir aðrir ástvinir hennar og ættingar, sjáum enn eins og í skuggsjá, ástar og blíðu faðm hennar útbreiddan, til að umfaðma oss og kveðja í seinasta sinni hjer í heimi. — Vjer heyrum hana nú eins og leggja blessun sína í fyllsta mæli og með brennandi tárum yfir allt sitt hús og fela það Guði á hendur með fullu trausti. Vjer heyrum hana ávarpa það og oss alla sína vini og náunga með þessum dýrmætu orðum Frelsarans: „innan lítils tíma munuð þjer ekki sjá mig, og aptur innan lítils tíma munuð þjer sjá mig, því jeg fer til Föðursins“. þangað og þar vona jeg eptir yður, og að sjá aptur og finna yður ásvini mína, sem jeg nú yfirgef. — „Jeg mun sjá yður aptur, og yðar hjörtu munu fagna“ — hvílík huggunar orð, v. m.! — „og þann fögnuð skal enginn frá yður taka“ — hvílík sælurík tilhuxun!

Hverr sem þekkti nokkuð til hjartalags og hegðunar vorrar framliðnu systur, sem hún jafnt og stöðugt vottaði, meðan hún dvaldi hjer í heimi,

mun vissulega kannast við, að þannig eða á líkan hátt, mundi hún nú að skilnaði hafa viljað kveðja oss ástvini sína.

Vjer kveðjum þig þá þannig heitt og hjartanlega, ástkærasta sofnaða systir! og felum þig Guði á vald. Vjer söknum þín að vísu sáran, en viljum þó ei mögla á móti Guðs vors ráðstöfun, heldur hugga oss við tilhuxun þess fagnaðar, friðar og sælu, sem þú nýtur nú hjeðan af um alla eilífð, og við þá sæluríku von og vissu, að mega finna þig þar og sjá aptur, og njóta með þjer sælufullrar óslítanlegrar sambúðar æfinlega. Nú viljum vjer því glaðir undirtaka með hinum aldraða Guðs manni Símoni: „Drottinn! láttu nú þjón þinn í friði fara, vjer höfum sjeð þitt hjálpræði“.

Vertu þá eilíflega blessuð og sæl, bezta systir! þakklát endurminning þín skal jafnan varðveitast í blessun meðal vor.

Kom þú til með oss, Drottinn Jesús! og stattu oss nú til hægri handar!

Nú er þá að því komið að vjer hljótum að sleppa þjer úr faðmi vorum, ástkærasta framliðna, sem varst oss svo ástfólgin, að sleppa þjer út úr húsinu, hvers prýði þú varst, og sem þú studdir og styrktir að fullum helmingi! — Já, góður Guð hjálpi oss öllum, hjálpi þessu blessaða sorgarhúsi!

Farðu þá í friði, þú framliðna! þú framliðni

andi vorrar ástvinu! Vjer felum þig að síðustu með heitri hjartans bæn Guðs Föðurs miskun á hendur, fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist, hinn eilífa meðalgangara milli Guðs og manna, sem af öllum oss — já, af öllum tungum engla og manna sje sílofaður og blessaður af hug, hjarta og munni!

Æ! farðu þá margsæla! margblessuð af Guði og mönnum! Vjer viljum ástunda að undirbúa oss í sönnum Guðs ótta til sáluhjálplegrar burtfarar hjeðan, eins og þú, að vjer fyrir Guðs náð mættum finna þig aptur og aðra ástvini vora, sem á undan oss eru farnir inn á land lifandi manna, og njóta þar ásamt þjer og þeim eilífs friðar og fagnaðar og fullsælu í sameiningu við Guð og Frelsara vorn, og í flokki hinna mörgu þúsunda.

Guð unni oss að njóta þeirrar dýrðar, sælu og sóma í Jesú nafni! amen.

Gangið svo nær, þjer, sem kvaddir eruð til að flytja burtu þessa kistu, síðasta hvílurúmið vorrar hjartkærustu! Vjer fylgjum með helgum og alvarlegum söknuði á eptir. Farið í friði! amen.

---

## Mælt yfir líki stúdents og alþingismanns **Guttorms Vigfússonar,** áður enn það var borið út úr svefnhúsi hans,

af

**Stephání** prófasti **Árnasyni** á Valþjófsstað.

---

Mínir samkristnu!

Nú er það komið hjer fram, það sem fyrir löngu var auðsjáanlegt að verða mundi: Faðir og húsfaðir þessa heimilis liggur hjer örendur fyrir vorum sjónum, og vjer — þjer hans eptirlifandi börn! og þjer hans vinir og vandamenn! — erum hjer samansafnaðir, syrgjandi, kringum lík hans, til að veita honum, sem var okkur í lífinu svo dýrmætur vinur og vandamaður, þá seinustu þjónustu — til að bera hans andvana líkams tjaldbúð út úr þessu svefnhúsi og á leið til grafarinnar — út úr þessu húsi, þar sem hann var búinn að þjást og þjakast meir enn heilt ár, undir sorgar- og sjúkdómsþjáningum og sóttarlíma, ekki sjaldan hinum áköfustu.

Þetta vort sameiginlegt sorgar- og saknaðarverk er einnig fyrir oss, mjög alvörumikið og eptirtektavert. Enginn af oss veit hve nær aðr-

ir af vorum lifandi meðbræðrum, verða kallaðir, til að veita oss þá sömu þjónustu. Dauðinn liggur falinn með oss í voru holdlega eðli; hvenær hann muni rjetta út hönd sína og knýja á dyr lífsins, veit enginn, nema Guð einn, hann, sem talið hefir vora daga. Hvort dauðinn muni koma með langvinnum sjúkdómi og þjáningum eða í skyndi, svo sem elding af himni, er oss öllum jafnt hulið.

þetta lík, sem hjer liggur fyrir vorum sjónum, er í lifanda lífi var sálinni samtengt, og þá svo elskuríkur faðir ástkærra barna og óveill trygðavinur vina sinna og venzlamanna, hvað minnir það oss á? Eins og eðlilegt er, er það nábleikt og dauðans skuggsjá yfir því; þó er mjer eins og það tali til vor alvarleg rödd. Að vísu hefir það ei mál, þó finnst mjer sem enginn hafi meiri málsnilld, enn þessi nú styrðnaða og aflvana tunga. Litla stund liggur hjer þetta lík mjer fyrir sjónum, en það vekur hjá mjer þessa hugleiðingu og hjartanlega bænakvak: kenn mjer, herra lífsins dauðans! að athuga mína endalykt og að jeg hljóti frá að hverfa! kenn mjer þannig að telja mína daga, að jeg ávallt hyggnari verði! þessi og þvílíkar hugleiðingar mega ætíð hreifa sjer fyrst hjá oss og gagntaka vor hjörtu, undireins og vjer sjáum dáins manns lík. En þegar vjer um leið huxum út í það, að dauðlegar

leyfar ágætra manna eiga að verða bornar andvana út úr húsunum, sem þeir í lifanda lífi höfðu lengi búið í með miklum sóma, og seinast hreppt þar fegurstu æfilok, þar sem þeir, sagði jeg, höfðu lengi búið í æskilegustu og unaðarfyllstu sambúð við konu og börn, ættingja eða vini og venzlamenn, þá verður oss að koma fleira í hug, bæði hvað þeir skilja eptir á jörðunni og hvernig þeim hafi liðið í þeim húsunum, sem þeir eiga að hefjast út úr, til þess aldrei að koma þangað aptur. — Það er hátíðlegt og þýðingarmikið augnablik, þegar maðurinn er borinn örendur út af dyrum þess húss, er hann hafði lengi búið í við sorg og gleði, heilsu og vanheilsu, þar sem Drottinn lífsins og dauðans hafði rjett honum svo opt kaleik gleðinnar og hrygðarinnar.

Þannig á nú að hefja út úr þessu húsi innan lítils tíma andvana líkama heiðarlegs höfðingja og merkismanns, stúdents og alþingismanns Guttorms sál. Vigfússonar, sem sá himneski húsfaðirinn er nú miskunsamlega búinn að leiða, með sínu fólki, heim til sinnar hvíldar eptir, ekki allangt, en þó opt og tíðum mótlætis-eymda- og þjáningafullt líf. Það er oss alkunnugt, hversu opt þessi sæli vinur vor átti við þjáningar og sjúkdóma að stríða, og hve mikið hann leið, og það með jafnaði, í þessari þungu og löngu banalegu sinni. Það er einnig kunn-

ugt, að hann bar allt sitt mótlæti í lífinu — missi tveggja ástríkra ektakvenna, missi margra efnilegra barna og að síðustu algjörlegt tjón heilsunnar, með frábærri stillingu og rósemi, og gaf sig í öllum lífsins kjörum, stríðum sem blíðum, öldungis á Guðs vald og vilja.

Nú kveður hann, þessi vor í Drottni sofnaði ástvinur, þau húsin, hvar hann hafði svo mikið og lengi liðið. En — eins og sönn trúarhetja, hafði hann þó ætíð, hversu mikið sem hann leið, þá greind og guðrækni óbrjálaða, hve nær sem jeg kom til hans á endadægrum lífstunda hans, að þakka Drottni fyrir reynzluna; því hann kannaðist við, að reynzlan verkar trúna og traustið á Guði og þolinmæðina í þjáningunum, að þó sá útvortis maðurinn hrörni og gangi til þurðar, endurnýjast samt dag frá degi sá hinn innri og að vjer hljótum gegnum neyð og hörmungar inn að ganga í Guðs ríki. — Hans stríð er nú úti og á enda kljáð; hann stóð í því eins og hetja, þess vegna hefir nú Faðirinn gefið honum sigur, heilsu fyrir vanheilsu, og í staðinn fyrir baráttu og þreytu hvíld með börnum sínum í útvaldra heimkynnum.

Já — eins og jeg sagði í upphafi — er svo sem þetta lík tali til vor allra hjer nærstaddra áminningar orð, að vorar æfistundir sjeu líka á enda þegar minnst varir. Þessi sama áminning nær einnig til yðar, elskulegu börn hins

framliðna! til yðar, sem útausið nú, eins og von er, yfir líki hans heitum tárum saknaðarins og elskunnar, hún minnir yður einnig á, að yðar líf er á fleygiferð og flýtir sjer til grafar, svo þjer lærið í tíma að búa yður sem bezt undir dauðann. Gætið að og takið eptir: látið yður sagt vera til huggunar, að máttvana tunga og nábleikar varir þessa ástríka föður yðar ávarpa yður nú sömu orðum, sem Frelsari vor lærisveina sína í skilnaðarræðu sinni til þeirra, er hann sagði: „Þjer hafið nú að sönnu hryggð, en yðar hryggð skal snúast í gleði, því það batar yður að jeg fari hjeðan"!.

Það er eðlilegt, að þjer sjeuð mjög niðurbeygð og harmþrungin, börnin góð! út af missi slíks föður, svo góður og elskuríkur og umhyggjusamur sem hann var yður. En látið þá hugsun hepta sorg yðar, að þó þessi yðar góði faðir sje að jarðneskum návistum horfinn yður, þá eigið þjer ávallt dýrmæta endurminningu hans hjá yður, og þjer eigið annan miklu æðra og betra Föður á himnum, sem lofað hefir að vera faðir föðurlausra, og því loforði hans megið þjer öruggt trúa og reiða yður á það, því hann er trúr og heitir hvorki nje lofar öðru enn því, er hann bæði kann og vill efna.

Það batar yður, sagði Jesús við lærisveina sína, að jeg fari hjeðan. Og eins og það bataði

þá að þeir misstu sinn bezta vin og lærimeistara að líkamlegum návistum, eins mun og einnig bata yður og verða yður, undir vísdómsfullri og gæzkuríkri handleiðslu yðar himneska Föðurs, til gæfu og blessunar, að þessi ástríki faðir yðar og leiðtogi hvarf nú frá yður til dýrðar hans, sem er Faðir yfir öllu á himni og jörðu. Meðan hann lifði og þjer nutuð hans návistar, voruð þjer allt af óhult um yður í ástríkum föðurfaðmi hans. Þjer vissuð og treystuð því, að hann leiddi yður óhult, með sinni kærleiksfullri föðurhendi. Fyrir þessa blíða handleiðslu og nákvæmu umönnun munuð þjer hafa gengið fram lífsleið yðar áhuga- og athugalítil um farartálma og tálsnörur, sem jafnan eru nógar á veginum, einkum fyrir hinum ungu, sem þjer vissuð og treystuð hann mundi vara yður við, og verja yður þeim, eins og hann ávalt gjörði. — Þessi föðurhandleiðsla var yður að sönnu dýrmæt, en það batar yður að þjer lærið sjálf að ganga yðar veg óstraffanlega. Já! það batar yður, segi jeg — þó yður virðist það nú ekki trúlegt — að þessi holli og trúi leiðtogi er vikinn frá yður, því hinn himneski Faðir yðar og leiðtogi tekur yður nú, eins og hann hefir lofað, að sjer undir sína vísdómsfullu og föðurlegu vernd og leiðslu; hann tekur nú við að leiða yður til framfara og farsældar, að setja yður í skóla þessa lífs, svo þjer æfið þar sjálf

líkams- og sálarkrapta yðar af eigin frjálsræði og skynsemd, að þjer lærið þar sjálf að leggja fram krapta yðar til framfara og fullkomnunar, lærið að ganga fram óstraffanlega lífsferil yðar, — lærið að byggja alla yðar von og allt yðar traust á honum einum, sem tekur yður svo föðurlega að sjer, agar yður og leiðir, sem undirbýr yður og fullkomnar með margháttaðri reynzlu á lífsleið yðar, undirbýr yður og fullkomnar til eilífrar blómgunar og fullsælu í samfjelagi útvaldra á himnum í sameiningu við yðar og vorn blessaða endurlausnara Jesú Krist, í sameiningu við elskaða foreldra yðar, systkyni, vini og vandamenn og öll Guðs börn. Þá mun sú hryggð, sem þjer hafið nú, snúast í óumræðilega gleði og eilífan fögnuð. Þessa ævarandi fagnaðar og eilífu gleði gefi góður Guð yður og oss öllum njótandi að verða, fyrir sinn Son Jesúm Krist, með aðstoð Heilags Anda! amen.

Berum þá, að svo mæltu, burtu hjeðan, úr þessu svefnhúsi, enar jarðnesku leyfar ástvinar vors! Heiðrum bæði hans alþektu dyggðir og mannkosti, hans kross og það stöðuglyndi og þolinmæði, er hann sýndi undir honum! Minnumst þess, að enginn veit sína æfina fyrr enn öll er.

Farðu í friði, þú sæli andi! vertu ástkæri tengdabróðir! eilíflega í Guðs friði, amen.

---

# Húskveðja yfir líki
## Guttorms Vigfússonar students og alþingismanns,
eptir
## Einar prest Hjörleifsson á Vallanesi.

---

Elskuðu náungar og vinir! Hjer erum vjer enn saman söfnuð — hjer á þessu góðfræga heimili er sá staðurinn, sem vjer opt áður höfum fundizt á — hjer höfum vjer átt marga stund ánægju og skemtunar — hjer höfum vjer opt heyrt skynsamlegt og nytsamlegt samtal og viðræður — hjer höfum vjer notið góðra ráða, huggunar og liðsinnis, þegar vjer vorum í vanda stödd. Vjer, sem þessa höfum notið, vjer megum þakklát minnast h a n s, sem slíkum ræðum stýrði, sem býtti oss góðum ráðum og huggaði oss með þeirri blíðu og viðkvæmni, sem honum var svo lagin. — Það hafa líka verið þeir tímarnir, þá vjer höfum verið döpur og hrygg í húsum þessum, vegna þess vjer fundum oss skylt, ekki einungis að gleðjast með glöðum, heldur syrgja með syrgjandi. – Vjer höfum sjeð út bornar úr húsum þessum, ekki fyrir löngu, tvær örendar ektakvinnur, góðfrægar húsmæður, hvorja eptir aðra, og tekið þátt í sorg

viðkvæms ektamaka og móðurlausra barna. Nú er það í 3. sinni að sorgin hefir safnað oss hingað og það í flesta lagi, enda tekur nú þetta nýa sorgarefni yfir allt hið undangengna.

Ó! hvað hjer er nú allt dapurt og tómlegt! nú er sú tungan styrðnuð, sem mælti við oss svo fúslega og svo opt ástarorðin blíðu — nú eru þeir armleggirnir aflvana, sem áður föðmuðu oss svo ástúðlega, þegar vjer komum á heimili þetta. Það skarðið, sem hjer er orðið, mun seint fyllast. Ástvinur vor og elskuríkasti bróðir, student og alþingismaður Guttormur Vigfússon, liggur hjer — kaldur nár. Hann, sem vjer höfum haft svo mikið yndi af, gagn og sóma, hann — er frá oss horfinn. Vjer eigum ekki framar í þessu lífi von á að njóta hans ástúðlegu og nytsömu umgengni. Blessuð börnin hans, föður og móðurlaus, standa hjer niðurbeygð af sorg og ekka. Þeirra góðu foreldrar eru frá þeim tekin hvort eptir annað; þau mæna eptir anda þeirra í himininn og standa eptir munaðarlaus, ráðþrota og örmögnuð undir byrgði sorgarinnar Ó! Guð minn góður! Hver fær staðizt svo hann falli ekki, þegar harmabylgjurnar hrynja þannig á hann hvor eptir aðra, nema þú styrkir hann með þínum guðdómsmætti. Vjer hefjum því á þessari sorgarstundu hugann til þín, sem ert almættið og gæzkan sjálf, og biðjum þig að hugsvala vorum angruðu hjörtum.

Gefðu oss náð til að taka sjerhverju mótlæti, er þú lætur oss að höndum bera — hversu þungbært sem vera kann — með sannri undirgefni og þolgæði — gefðu oss styrk til að geta sagt af hjartans sannfæringu með frelsara vorum: Faðir! ekki minn, heldur verði þinn vilji! — Jesús, góði Frelsari vor! þú sampíndist vorum eymdum og sveittist sjálfur blóðinu í þínu dauðastríði. — þú sem með almætti þínu gafst harmþrungnum systrum elskaðan bróður aptur lifandi, og munaðarlausri ekkju hennar einkason. — þú sem hefir gefið oss það fyrirheit, að þú skulir vera með þínum allt til veraldarinnar enda, — virztu, ljúfi lausnari vor! að senda nú þinn anda, — anda huggunar og friðar — í vor sorgmæddu hjörtu, sem leiði oss í allan sannleika; sannfærðu munaðarlausu börnin, sem nú eru svipt einustu stoð sinni á jörðinni, ástríkum föður og áður dygðaríkri móður — sannfærðu þau um það, að Guð er kærleikurinn, að meðferð hans á öllum börnum hans er föðurleg og gæzkurík! Innrættu þeim þá öruggu trú, að þó faðir þeirra og móðir yfirgefi þau, þá yfirgefi þau ekki þeirra og vor allra himneski Faðir! Kenndu þeim að kasta allri sinni áhyggju upp á hann, sem einn hefir viljann og máttinn til að hjálpa enum bágstöddu! Láttu þau ávalt finna hugsölun í þínu náðarorði, halda

sjer við þinn veg og hafa þín boðorð og þitt dæmi fyrir fasta lífernisreglu alla æfi!

Þjer, mínir meðsyrgjandi náungar og vinir! Ó! hve mikill er missir vor allra í fráfalli þessa elskaða ástvinar vors, sem hjer liggur örendur. Börnin hans, ung og mörg, hafa misst hinn bezta og viðkvæmasta föður, sem fram yfir allt lá á hjarta velferð þeirra andleg og líkamleg. Hjúin hafa misst blíðan og nærgætinn föður, sem var þeirra fyrirmynd og leiðarvísir í öllu góðu og guðlegu.

Vier náungar hans, ættmenn og vinir, höfum misst þann, sem nú var orðinn eptir, helzta stoðin, mesti sóminn og fegursta prýðin ættar vorrar; vjer höfum misst þann tryggvasta vininn, sem jafnan var fús að gefa oss góð ráð og hafði ætíð nægð af þeim, sem tók svo innilega hlutdeild í kjörum vorum blíðum og stríðum. Sveitarfjelagið, sem hann lifði í, hefir misst þann, sem hafði bæði viljann, vitið og framkvæmdina til að koma því til leiðar, er hann mátti orka og eflt gæti velferð bræðra hans, andlega og líkamlega; það hefir misst þann, sem í orði og verki afkastaði svo miklu og var annara fyrirmynd og foringi í því, er til góðs mátti horfa. — Hryggðarefni vort er því mikið, missirinn sár og fyrir vorum skilningi óbætanlegur. En — hverr er sá, m. e., sem hefir tekið þenna ástvin vorn frá oss? Ó! vjer

vitum það öll: það hefir gjört Faðir vor á himnum, sem er einber speki og gæzka, sem hefir sjer í hendi líf og eilíf kjör vor allrá, hann, sem talið hefir höfuðhár vor og sendir oss mótlætið í bezta tilgangi, svo vjer höfum ætíð orsök til að vera ánægðir með stjórn hans og umráð. Þegar vjer trúum þessu staðfastlega, þá þarf oss ekki að fallast hugur, þá þarf sorgin ekki að yfirbuga oss. Það er trúnaðartraustið á Guðs algóðu forsjón, er úthlutar börnum sínum því eina, sem þeim er fyrir beztu; það er örugg trú á vorum himneska Föður, sem einn getur huggað oss og hresst, þegar hörmungarnar sækja að oss. Það var og þessi trúin, trúin á algæzku skaparans, sem jafnan var gróðursett hjá þessum framliðna ástvin og bróður; það var þessi trúin, sem lýsti sjer í orðum hans og verkum, sem hjelt honum ætíð upprjettum, þegar mótlætiskrossinn lagðist á hann: þegar ástvinirnir hvurfu honum einn eptir annan, og þegar hann sjálfur gat ekki borið af sjer fyrir ofraun þjáninganna í helsóttinni. Láttu, ó Guð! þessa trú vera vort athvarf nú og ætíð! Látum oss þá, m. e! ekki mögla móti vorum himneska Föður, látum oss þegja, það er Drottinn, sem hefir gjört allt þetta, hann, sem allt vald hefir á himni og á jörðu og öllu niðurraðar og stjórnar með mestu speki og gæzku. Látum oss því með rólegri undirgefni gefa oss undir Guðs voldugu hönd

og segja með frelsara vorum: „ekki minn heldur verði þinn vilji“! Látum oss viðurkenna með þakklæti gæzku vors góða Föður, að hann gaf oss þenna mæta ástvin vorn, ljet oss lengi njóta hans sambúðar, og hefir nú frelsað hann frá hans löngu og stríðu sjúkdóms þjáningum, og allri mæðu sorg og sút þessa heims, en leitt hann inn í heimkynni sælunnar til frelsara vors, á þann staðinn, sem hann hefir honum tilbúið! Látum oss af hjarta samfagna vorum bróður, sem nú hefir fundið horfna ástvini sína, er hann tregaði hjer.

Heitt elskaði, framliðni ástvinur! vjer náúngar þínir og vinir stöndum hjer kringum líkkistu þína harmþrungnir; sorgin af því að missa þín, leggst þungt á oss; en vjer viljum samt ekki syrgja eins og þeir, sem enga von hafa. Vjer viljum taka þessu mótlæti eins og sannkristnir, með fúsri undirgefni undir Guðs vilja; vjer viljum gráta heitum og einlægum saknaðar tárum, þar vjer höfum svo mikils misst, en þó undireins þakka föður miskunsemdanna fyrir lausn þína og fagna yfir þínum sælu umskiptum. Þínar langvinnu og hörðu sjúkdóms þjáningar hafa og að nokkru leyti búið oss undir að missa þín. Hefði þær ekki verið undan gengnar, mundi fráfall þitt hafa orðið oss enn óbærilegra á þessari stundu. Þegar ástvinirnir þjást lengi undir byrði sjúkdómsins, þegar harmkvælin verða æ ákafari, stríðið milli

lífsins og dauðans harðara og hættulegra, þegar kraptarnir þverra meir og meir, kvalirnar virðast óbærilegar þeim, er undir þejm liggja, og öll lífsvon sýnist horfin, þá er eins og elskan afneiti sjálfri sjer. Þegar ástvinirnir heyra og sjá slíkt til lengdar, þá hafa þeir, löngu áður enn lífið slokknar, kennt saknaðarins og búizt undir að afbera missirinn, þegar hann aðber. Þeim verður þá helzt fyrir að biðja hinn algóða föðurinn, að gjöra sem fyrst enda á þjáningum ástvinarins. Þessa höfum vjer, ástvinir þínir, beðið Guð, og þessi bæn er nú heyrð. Hinn líknsami faðirinn hefir nú leyst sálu þína frá fjötrum þíns þjáða og tærða líkama. Hress og heilbrigður og sæll hefir nú andi þinn, studdur náðar krapti Guðs, lypt sjer í bústaði sælunnar á fund frelsara þíns, sem þú elskaðir af hjarta og lifðir hjer. Vjer vonum innan lítils tima að sjá þig aptur, þar sem enginn aðskilnaður getur orðið framar milli þeirra ástvina, sem hrein elska hafði hjer í lífi samtengt. Guði sje lof, sem þjer hefir sigurinn gefið fyrir Jesúm Krist!

Og þegar þú — heitt elskaði ástvinur! þegar enar holdlegu umbúðir sálar þinnar eiga nú að flytjast úr húsum þessum, sem þín íbúð hafði svo prýtt, þaðan, sem þú hafðir svo margt og mikið unnið þjer og öðrum til gagns og sóma, þá virðist mjer þú mundir ef vjer gætum heyrt mál þitt,

kveðja oss með þessum eða þvílíkum orðum: Blessun, óaflátanleg blessun Drottins hvíli yfir yður öllum! Himneski faðirinn vor allra veri nú og ætíð yðar athvarf og styrkur til alls góðs! Sönn trú og einlægur guðsótti sje jafnan yðar leiðarvísir! Þjer, mín ástkæru börn! þakkir sjeu yður fyrir yðar nákvæmu aðhjúkrun og ástaríku umönnun fyrir mjer í mínum þungbæra sjúkdómi, fyrir alla elskusemina og auðsveipnina, sem þjer hafið jafnan sýnt mjer! Faðir yðar og móðir eru nú frá yður tekin, en Guð mun vera faðir yðar, hann mun aldrei yfirgefa yður, ef þjer slítið yður ekki úr hans hendi. Kappkostið að ganga á hans vegum! hafið æ í minnum hans gæzkuríku boðorð og ástundið að vaxa í náð og þekkingu Drottins vors Jesú Krists! Kastið svo allri yðar áhyggju upp á Drottinn, honum er annt um yður! og þá mun yður óhætt, hvað sem ágengur hvar sem yður kann að vera ætlaður vinnureitur, og hvort sem æfi yðar verður löng eða skammvinn. — Unnið hvort öðru! styðjið og styrkið hvort annað meðan þjer dveljið hjer! Innan lítils tíma munuð þjer sjá mig aptur, þegar þjer eitt eptir annað komið heim í föðurlandið. Jeg lifi og þjer munuð lifa, eins og frelsari vor sagði, lifa, sjást og sameinast aptur í dýrðinni hjá honum! Og þjer, mín dyggu og góðu hjú, þakkir sjeu yður fyrir þá dyggð og hollustu, sem þjer hafið auð-

sýnt mjer. Guð mun af náð sinni endurgjalda öllum, sem trúir finnast á reikningskapardeginum, hvort sem þeir eiga að sjer meira eða minna. Sá sem er hjer trúr yfir litlu, mun þar verða settur yfir meira og fá að innganga í fögnuð síns herra

Vjer kveðjum þig nú og í síðasta sinni, heitt elskaði ástvinur! lengur máttir þú ekki dvelja hjá oss, þínir afmældu æfidagar voru nú á enda; hjervist þín hjá oss var ekki nema lán um stundarsakir, sem hinn alvaldi átti frjálst að taka af oss, þegar honum þóknaðist. Ó! farðu þá blessaður, margblessaður úr húsum þessum, úr sambúð vorri! En þó þú sjert oss horfinn að sýnilegum návistum, þá mun minning þín ætíð verða blessuð meðal vor, og menjar þínar aldrei geta upprætzt. Blíður Guðs ótti og lifandi traust þitt á Guði vorum og Frelsara, sem þú í orði og verki vottaðir fram í dauðann, og það undir hörðustu hríðum sjúkdómsins, þín ráðvendni, þín föðurlands elska, þinn mannkærleiki, þinn framúrskarandi vilji og áhugi að efla andlega og líkamlega heill bræðra þinna, þín sparsemi, þín hófsemi, þinn dugnaður og ráðdeild — allt þetta og fleiri kostir, sem þig prýddu, munu lengi bera ávöxt, 100faldan ávöxt hjá öldum og óbornum meðal vor. Orð ritningarinnar eiga fullkomlega heima hjá þjer: minning hins rjettláta blífur í blessun

Ástríki, sæli bróðir! þig reyndi jeg ávallt á samferð okkar einn meðal hinna einlægustu vinanna, sem mjer hafa hlotnast. þinn missir bætist mjer ekki meðan jeg lifi hjer! Meðtaktu mitt innilegasta þakklæti fyrir alla þá huggun og hjálp og allt það góða, sem þú ávallt auðsýndir mjer, fyrir öll þau hollu ráðin, fyrir allt það yndi og gagn, sem viðræðurnar við þig veittu mjer! Ástin á þjer getur aldrei dáið. Jeg vona, já! jeg er fullviss um að Guð, sem er kærleikurinn og innrætt hefir kærleikans tilfinningu hjörtum vorum, muni gefa mjer færi á að sjá þig, sameinast þjer, sameinast þjer og elska þig í öðru lífi, ásamt með öðrum mínum hjartkæru ástvinum, sem undan mjer eru gengnir inn í eilífðina. Vertu þá sæll, eilíflega sæll, ástkæri, framliðni bróðir! Guð gefi mjer og öllum þínum ástvinum, sem nú harma viðskilnað þinn, náð til að haga svo hugarfari voru og breytni, meðan hjer dveljum, að vjer getum, þegar dauðinn flytur oss inn í æðra líf, hreppt þá sælu, sem þú ert nú inngenginn í, svo vjer eilíflega megum gleðjast hvor með öðrum í Guðs dýrðarríki á himnum.

Algóði, himneski faðir! álíttu í náð þinni og miskun alla sorgmædda! svalaðu þeim af þínum gæzkulindum, þegar þá mest þyrstir eptir huggun og hjálp! Taktu í náðarvernd þína föður- og móðurleysingjana, sem setja sitt traust á þig!

Láttu þau finna til þess friðar í hjörtum sínum, sem verndi þau og varðveiti frá allri óþolinmæði og mögli móti þinni föðurgæzku! þegar þjer þóknast að senda oss þrautir og andstreymi, þá gefðu oss náð til að gefa oss undir þína voldugu hönd og viðurkenna auðmjúkir, að allir þínir vegir sjeu einber gæzka og trúfesti! Gef oss að lifa kristilega og deya sáluhjálplega, svo vjer fáum og lifað með þjer um alla eylífð! Amen!

---

## Önnur húskveðja yfir líki
### Guttorms Vigfússonar stud: og alþingismanns,

eptir

**Jón** prest **Jónsson** á Klifstað.

---

Af elsku oss til bóta agar þú, faðir! oss, svo vörumst lesti ljóta, leggur á neyð og kross; hjálp veitir hirting með; því er skylt þessu tækjum með þökk, og jafnan rækjum þjer hlýðið þolugt geð.

Heitt elskuðu bræður og systur! Ekki er jeg kominn hingað í því skyni, að jeg ætli mjer að lýsa því hvað því veldur, að vjer erum komin saman á þetta göfuga heimili, svo fjölmennt úr

nálægum og fjarlægum sveitum; ekki í því skyni að lýsa því, hvers vegna allir eru hjer hryggvir og grátnir; það hefir verið gjört af þeim, sem betur eru til þess færir, enn jeg. En harmur sá, er gagntekið hefir hjörtu allra, sem hjer eru nálægir, skyldra og vandalausra, er vottur þess hvílíkur sá var, sem hulinn er nú örendur innan þessara dökku líkfjala. Og ástin á honum, sem vjer eigum nú að bera út úr þessum húsum til síns síðasta hvíldarstaðar, hefir knúð mig hingað, til að kveðja hann hjer í síðasta sinni með fáeinum orðum.

Aldrei finnum vjer eins glöggt, hvað ónógir vjer erum sjálfum oss, hversu ófærir að standast af eigin kröptum, hversu þreklausir vjer erum, eins og þegar mótmælis- og harmabylgjurnar hrynja á oss hvor eptir aðra, þegar hið ósigranda vald dauðans hrífur burtu vin frá vini, og ástríkan föður úr faðmi barnanna, og skilur þau eptir munaðarlaus, einmana og ósjálfbjarga; hrífur burtu þann, er allir, sem til náðu og einhvers þurftu með, áttu hjá öruggt athvarf, sem var þeirra stoð og styrkur, huggun þeirra hrelldu og hjálpari bágstaddra. Þegar slíkir harmar bera oss að höndum og það hverjir á fætur öðrum, mundum vjer ekki fá undir þeim risið, ef hin heilaga trúin, er Jesús Kristur færði oss af himnum, styrkti oss ekki, hin heilaga trúin, sem kennir oss: að

allt hvað Guð gjöri sje harla gott, að af elsku láti hann af og til sorgaskúrirnar dynja yfir oss, af því þær sjeu oss ómissandi, til að efla andlega og líkamlega framför vora. Og reynzlan hefir fullkomlega sannfært oss um, að þetta er guðdómlegur sannleiki. Ef allt gengur að vild vorri, ef vjer böðum allt af í rósum, hættir oss svo mjög við, að gleyma æðstu skyldum vorum, að gleyma Guði, gjafaranum allra góðra hluta, gleyma því að hin jarðnesku gæðin eru ekki vor eign, að allt það, er vjer njótum, er lánsfje og á valdi Drottins að taka það aptur, þegar honum þóknast. En í skóla mótlætinganna lærum vjer margar þær dygðir, sem annars mundu vera oss eins og ókunnugar; þar lærum vjer að hefja huga vorn til himins og leita hjálpar hjá hinum algóða föður vorum, þegar oss lærist að skilja, að ekki er annarstaðar athvarf að finna, að umgangast hann í auðmjúkri bæn og öruggu trúartrausti; þar lærum vjer að neyta þeirra kraptanna, þeirra meðalanna, er gæzka Drottins hefir lagt í ríki náttúrunnar, til að lækna og lina mæðu lífsins. Já! vjer vitum það og vjer trúum því og treystum, að allir þínir vegir, ó Guð! sjeu einskær gæzka, einskær miskun og trúfesti.

Og hvenær mun oss ríða meira á að minnast þessara huggunarríku atriða trúar vorrar, enn á þessari stundu, þegar sá missirinn er oss að

höndum borinn, sem oss finnst að oss muni trautt bætast; þegar sá er hrifinn frá oss, sem var fegursta blómið ættar vorrar, þegar vjer eigum ekki framar kost á að sjá hann lifandi meðal vor, hann, sem ávallt gekk á undan öðrum til að efla andlegar og líkamlegar hagsældir bræðra sinna, sem fann þá framfara vegina, er öðrum voru áður ókendir, sem fann þá fjársjóðina, er náttúran geymdi í skauti sínu og sýndi þá öðrum — þegar sú höndin er styrðnuð, sem ávallt tók móti oss og faðmaði oss með svo stakri blíðu, hvert sinn er vjer heimsóktum hann — þegar þær varirnar eru apturluktar, er hin hollu og góðu ráðin, hin blíðu og huggunarríku orðin streymdu fram af — þegar það hjartað er kólnað, sem brennandi var af guðrækni, ættrækni og fósturlands ást, brennandi af vandlætingu fyrir ósiði og íllt athæfi, brennandi af tilfinningu fyrir sóma og siðgæði.

Jeg vona enginn lái oss, ættingjum þessa látna ástvinar, þó sorgin gangi nú hart að oss, af því sú greinin ættar vorrar er upprætt, sem styrkust var og vjer áttum undir svo mikið skjól, og ekki einasta að oss, heldur einnig sveitungum hans ,vinum og fjelagsbræðrum, af því þeim auðnast nú ekki lengur að njóta liðveizlu hans og leiðbeiningar, hjálpar hans og ráðaneytis, ljúfmennsku hans blíðu og mannúðlegu umgengni, af því hann getur nú ekki lengur verið fyrirmynd

þeirra og hvatamaður til dugnaðar og framkvæmda, hygginda og ráðdeildar og reglusemi. Jeg vona, segi jeg, að enginn lái oss þó vjer sjeum barmþrungnir, og vildum fegnir ei hafa þurft að bera þessa líkkistu út úr þessum góðfrægu húsum, af því það er svo eðlilegt mannlegum tilfinningum að syrgja. En vjer viljum ei syrgja eins og þeir, sem enga von hafa; vjer viljum hugga oss við það, að þessi sorgaratburður er oss að höndum kominn eptir vilja og ráðstöfun vors algóða föður á himnum, sem lætur það líka fram við oss koma, sem hann sjer oss hollast; vjer viljum því ekki gleyma því, að vera þakklátir við hann í mótlæti sem í meðlæti, því vjer vitum og trúum að það er allt harla gott, sem kemur frá honum. Vjer viljum lofa hann og þakka honum fyrir það mikla og þarfa dagsverkið, er hann unni þessum framliðna bróður vorum, þessum trúlynda og örugga þjóni sínum að leysa af hendi. Vjer viljum ekki mögla eða kvarta yfir því, þó oss finnist hann of snemma frá oss tekinn; vjer vitum að vegir Drottins eru ekki sem vorir vegir, hans huxanir ekki sem vorar huxanir. Já! vjer viljum jafnframt hugga oss við það, að þessi ástkæri ættingi vor er nú laus við allar hinar þungbæru mæðustundir þjáninga og harma, sem jafnan verður hjer hlutskipti vort dauðlegra manna, og hann fór sízt varhluta af sínum skerfi þeirra —

hugga oss við það, að hann hefir nú hreppt trúrra þjóna verðlaun á landi ódauðleikans, að hann hefir fundið þar og samfagnar þeim, sem honum voru hjer ástfólgnir og komnir þangað á undan honum.

þó vjer, sem fullorðnir erum, höfum hjer næsta þungbært sorgarefni, þegar dauðinn hefir höggvið þvílíkt skarð í vora ætt, þegar hinn ötuli og framkvæmdarsami mannvinur og föðurlandsvinur, þessi ráðholli, hyggni og reglusami húsfaðir, er tekinn frá oss — þó vjer höfum harla mikið sorgarefni, þá eru hjer þó aðrir, sem þessi missir verður að vera sárari og tilfinnanlegri, enn oss, sem erum kallaðir sjálfbjarga og ættum að geta sjeð fyrir ráði voru. Hjer stendur grátandi barnahópur kringum líkkistu einhvers hins ástríkasta og elskulegasta föður; og þessi sorglega sjón verður að auka mikið harma vora.

það er ekki alllangt síðan, að álíkt sorgarefni og þetta, bar þessum börnum að höndum, ekki alllangt síðan þau stóðu hjer í sömu sporum yfir andvana líkama ástríkustu móður; og það sárið, sem þau fengu þá, mun ekki enn gróið, að minnsta kosti hjá sumum þeirra. þá var þó nokkuð öðruvísi ástatt, þá áttu þau eptir ástríkan, blíðan og umhyggjusaman föður, er gekk þeim í föður, er gekk þeim í móðurstað, og annaðist með stakri alúð og árvekni andlega og líkamlega vellíðan þeirra. — þetta eina athvarfið þeirra með-

al mannanna, er nú einnig núna frá þeim tekið, þessi eina huggunin, þessi einka aðstoðin þeirra í lífinu og það einmitt á þeim tímanum, sem skamsýni vorri virðist að þau hefði sízt mátt missa þetta, á þeim tímanum, sem þau eru, að minnsta kosti sum — að jeg taki svo til orða — milli vita; af því þau eru nú mörg á þeim aldri, þá gjálífi, andvaraleysi og óteljandi afvegaleiðslur, er vant að veiða í snörum sínum hina fjörugu æskumenn.

Þegar vjer virðum þetta fyrir oss, getur ei hjá því farið, að það vekji hjá oss hryggð og áhyggju, að sjá þessa smælinga föður- og móðurlausa, eiga nú að ganga út í ósjó freistinganna og afvegaleiðslanna. Þungbær yrði þessi tilhuxun að verða oss, ef vjer vissum ekki að þau eiga gæzkuríkan föður á himnum, sem allt gjörir vel, allt í bezta tilgangi, og hefir sjerílagi lofað að taka að sjer hin föðurlausu börnin.

Huggið yður einnig við þessa trúarfullvissu, þetta blíða fyrirheit, ástkæru börn! Þjer standið ekki ein uppi, þegar Guð faðir yðar er með yður. Minnist þess, sem Jesús frelsari yðar sagði við sína lærisveina, að það bataði þá, að hann færi frá þeim, því ef hann færi ekki, þá mundi huggarinn ekki koma til þeirra, sá er hann ætlaði að senda þeim frá sínum himneska föður. Eins og þeir skildu það ekki þá, að það væri

mögulegt, þeir gæti haft hag af því, að meistari þeirra og leiðtogi færi frá þeim, eins er það eðlilegt þó yður geti ekki skilizt það núna, að það bati yður, að faðir yður og leiðtogi á lífsveginum hingað til er nú tekinn frá yður. Síðar mun yður auðnast að skilja það. Frelsari yðar á himnum mun senda yður huggarann, ef þjer haldið yður til hans og gangið fram í ljósi hans orða. Þjer eruð ei einmana eða hjálparlaus, þegar Guð hinn algóði faðir yðar, sá er vjer lifum, erum og hrærumst í, er ætíð hjá yður. Hann hefir nóg ráð til að láta alla yðar þungbæru harma snúast í gleðiríkan fögnuð, og verða yður til andlegra framfara og fullkomnunar. Snúið yður til hans, biðjið hann og treystið honum einum í blíðu og stríðu, er hann sendir yður á lífsveginum. — Þakkið honum af hjarta fyrir það hann gaf yður þvílíkan föður, sem þjer áttuð! Þótt hann sje nú horfinn yður að líkams návistum, er hann þó enn og getur verið að nokkru leyti hjá yður: hans blessunarríku aðvaranir og blíðu áminningar munu enn vera geymdar í yðar hjörtum, yðar, sem til vits og ára eru komnir; þjer getið ávallt haft hans dæmi fyrir hugskotssjónum yðar og eptir því getið þjer sjeð hvernig þjer eigið að haga yður, svo þjer verðið sómi og prýði stjettar yðar, Guði og góðum mönnum þekk; heilagt ljós trúarinnar, er

hann glæddi í hjörtum yðar, getur ætíð lýst yður um hinn dimma og villugjarna veg lífsins.

þjer vinir og vandamenn vors framliðna vinar! þjer sveitungar hans! þjer gamlir og ungir! þjer bændur og þjónustufólk! þjer, sem hjer standið nú hrygg yfir líkkistu hans! hver mundi hafa verið hin síðasta bæn hans til yðar, ef hann hefði getað náð fundi yðar, áður enn skeyti dauðans snart hann, önnur enn sú, að biðja yður, hvern eptir efnum og kröptum, að annast börnin sín, að ganga þeim nú í sinn stað með ráði og dáð, til að efla andlega og líkamlega framför þeirra; og jeg er viss um, að svo er yður öll nú minnistætt, hve gott hann átti af yður skilið, að þjer leitist við að fullnægja þessari bæn hans.

þessi varð þá síðasti fundur okkar, ástkæri framliðni bróðir! þessi verður og síðasti skilnaður okkar á þessari jörðu. Jeg man þá dagana, að mjer þóttu ekki aðrar standir inndælli, enn að dvelja hjá þjer og njóta þinnar yndislegu og skemtilegu umgengni, þíns blíða og mannúðlega viðmóts; og þær stundirnar voru færri enn jeg vildi. — Jeg kveð þig þá *hjer* í síðasta sinni, ástkæri bróðir! og þakka þjer af hjarta alla tryggð og ástsemd, er þú auðsýndir ætíð mjer og mínum. Og þó missir þinn, úr jarðneskri sambúð vorri, olli mjer nú sárs saknaðar og trega, vil jeg hugga mig við það, að þessi orðin Frelsara vors rætist

á mjer og oss öllum: sælir eru þeir sem harma, því þeir skulu huggaðir verða! það veiti oss almáttugur Guð af náð sinni! amen.

---

# Ræða

haldin í kirkjunni yfir líkkistu stúdents og alþingismanns **Guttorms Vigfússonar**
af
hjeraðsprófastinum **Halldóri Jónssyni**
á Hofi.

---

Eilífi og algóði Guð! láttu oss aldrei gleyma þjer, hvorki á gleði nje sorgardögum! þegar fætur vorir ætla að vanmegnast á reynslunnar örðugu stigum, þá vertu vor styrkleiki! þegar hjarta vort titrar af angist, og ekki finnur frið á jörðu, þá gæð oss þíns Sonar himneska friði, og þegar þoka og myrkur hörmunganna hylja þinn kærleikshiminn fyrir vorum sjónum, þá láttu oss með trúarinnar sjón eygja stjörnu vonarinnar og engil huggunarinnar til vor koma! Láttu oss með bæn og trú halda oss til þín í hryggð og gleði, og tala við þig um vor hjartans málefni, og biðja þig, eins og góð börn biðja sinn elskulegan föður! þannig gef þú oss að umgangast þig á þess-

ari alvarlegu stundu, svo vjer megum verða hluttakandi þinnar náðarnálægðar, í Jesú nafni. Amen!

Hvenær skyldi oss, heiðraða sorgarsamkvæmi! koma til hugar það sem ritníngin segir: „Dýrmætur er fyrir Drottni dauði hans heilögu“. Ps. 116, 15. — hvenær skyldi oss koma þetta til hugar, ef ekki þá, þegar eins stendur á fyrir oss, og í dag stendur — ef ekki þá, þegar vjer stöndum grátandi yfir moldum þeirra, sem notið höfðu í lífinu — og verðskuldað virðing vora og elsku — sem ástundað höfðu að vera verkfæri í Guðs forsjónarhendi til eflingar mannheillum, og unnið trúlega svo lengi sem dagur entist — sem borið höfðu gæfu til að koma mörgu góðu til leiðar, mæðst í mörgu, sigrast á mörgum mótspyrnum, án þess að láta nokkurn tíma tilganginn helga meðalið — án þess að gleyma nokkurn tíma því, sem eitt er nauðsynlegt, — sem að vísu ekki höfðu verið það, sem enginn er á þessari syndugu jörðu — heilagir og fullkomnir — sem að vísu ekki höfðu höndlað hnossið, en kepptust eptir því, að þeir fengi höndlað það, eins og Kristur hafði höndlað þá, — og þess vegna á sínum síðustu stundum gátu með himneskri rósemi, er grundvölluð var á á Jesú trú, litið til baka yfir lífsferil sinn, og tekið sjer í munn orð postulans: „Jeg hefi góðri baráttu barizt, hlaupið fullkomnað, trúnni haldið“ (2. Tím. 4, 7.). — Í sannleika er það, v. m.! dýr-

mætt fyrir Drottni, þegar þvílíkir verkamenn hans verða kallaðir til að meðtaka verkkaupið, og sannarlega er gleði í himninum, þegar hinn mikli húsfaðirinn — sem er Guð og faðir þar og hjer — lætur segja þeim: „komið, þjer ástvinir míns föður, og eignist það ríki, sem yður var fyrirbúið frá upphafi heimsins“! (Matt. 25, 34.) — Sannarlega er gleði á himnum, þegar þvílík Guðs börn verða kölluð úr útlegðinni heim til síns rjetta föðurlands, til þess — eptir trúa ráðsmennsku yfir litlu að verða sett yfir mikið — verða kölluð til æðri starfa og andlegri, í óraskanlegum friði og fögnuði — í nánara og sælla samfjelagi við Guð — í æðra og fullkomnara fjelagi enn kostur er á að njóta á þessari syndugu jörð; — og — því meiri gleði er þá á himnum — því dýrmætara er það fyrir Drottni, þegar hans heilagir deyja, sem lífi þeirra hjer hafði verið samfara meiri reynsla — fleiri og þyngri þrautir og mæðusemdir. — Og — hve algengt er ekki þetta, syrgjandi vinir! hve rjett hefur ekki hið guðhrædda sálmaskáld að mæla, er hann segir: „Krists börn eru kross börn“, — hvílík sannmæli, að „þegar lífið hafi verið ágætt, þá hafi það þó verið mæða og erfiði“! — já — mæða og barátta er líf þetta; og vjer höfum hjer ekki einungis við hold að berjast — ekki einungis við freistingar og ástríður vors syndumspilta eðlis — ekki einungis við margar mótspyrnur, tálmanir

og vjelar, sem oss mæta í köllun vorri, í enum synduga og vanþakkláta heimi; — nei — vjer höfum einnig að berjast við sorg og mæðu — þrengingar og þjáningar, sem annaðhvort liggja á sjálfum oss, eður þeim, sem vjer elskum. Það er ætlunarverk vort hjer — ekki einungis að vinna verk vorrar köllunar, heldur einnig að líða — að drekka þann sorga- og hörmunga bikar, sem faðir vor himneskur, eptir speki sinni og þörfum vorum, hefur oss áskenktan; — já — fyrir margar hörmungar ber oss inn að ganga í Guðs ríki", — vjer eigum að líða og stríða — líða með Jesú, að vjer á síðan fáum með honum dýrðlegir að verða, — stríða í ótta Drottins, að vjer — fyrir verðskuldan Frelsarans — megum með öllum útvöldum halda eilíft sigurhrós í hans dýrðarríki! — Lof sje þjer, vor himneski Frelsari! að þú hefur lífið og ódauðlegleikann í ljós leitt — að þú hefur gefið þínum trúu stríðsmönnum þá friðandi og huggunarríku vissu, að ekki er til einkis barizt, að þeir „slá ekki eins og þeir, er í vindinn slá"; — lof sje þjer! að vjer vitum að þrenging þessara tíma getur ekki komist í nokkurn samjöfnuð við þá dýrð, sem þeirra bíður, er berjast hinni góðu baráttu, og varðveita trúna og góða samvizku til æfiloka — í þínum krapti viljum vjer stríða, í þínu nafni vinna ótrauðir verk vorrar köllunar og ástunda, að tár vor og andvörp, á neyð-

ar og angistar þunga tíma, megi verða þjer þóknanleg — þjer helguð! — til þín viljum vjer mæna augunum vorrar vonar — hjá þjer fella elskunnar og sorgarinnar heitu tár, og láta það vera ástundun vora, að bera svo vorn kross að um oss verði á síðan sagt í himninum: fyrir blóð Lambsins blíða búinn er nú að stríða, og sælan sigur vann.

það sem hjer hefi jeg sagt, dirfist jeg — í Jesú trausti — að heimfæra til þessa vors sofnaða vinar: jeg spyr óhræddur og hiklaust: naut hann ekki, og það að maklegleikum, virðingar og elsku hjá öllum þeim, sem rjettilega þekktu hann og vildu unna honum verðskuldaðs heiðurs? vann hann ekki ótrauður verk sinnar köllunar? efldi hann ekki mannheillir? var ekki líf hans ágætt? en var það ekki líka mæða og erfiði? og — leið hann ekki með þolinmæði og undirgefni undir Guðs vilja? hjelt hann ekki trúnni til síns síðasta andartaks? Ágætt köllum vjer vanalega lífið þegar maðurinn hefur þegið af Guði góðar gáfur og mikið sálar og líkams atgjörfi, — þegar ekki er skortur á auð, vinum eða virðingum, og lán og heppni fylgir störfum hans og fyrirtækjum. Allt þetta var vorum framliðna bróður ljent, og það ekki af skornum skamti: að mínu áliti hafði hann gáfur í betra lagi — stilltar, sinnugar, farsælar; — að hin jarðnesku gæðin hafi fallið honum ríkuglega í skaut má því heldur segja, sem

hann hafði fyrir svo mikilli fjölskyldu að sjá, og hafði í fyrstu ekki úr sjerlega miklu að spila; það mun líka óhætt að fullyrða, að hann hafi verið forstands- og búsýslumaður í bezta lagi. Um virðing þá, er hann naut hjá meðbræðrum sínum vitnar það, að hann jafnan var fyrsti maður í fjelagsskap og samtökum sveitar sinnar og hjeraðsins, og að hann hvað eptir annað var kosinn til að vera fulltrúi sýslunnar á alþingi; — hann sýndi líka í þessari köllun sinni sem hvervetna hrósverða alúð og hreinskilnustu og einbeittustu viðleitni, að traust kjósendanna á sjer ekki skyldi bregðast. Hvaða heppni og blessun jafnan fylgdi störfum hans og fyrirtækjum, sýndi sig ekki einungis og mun lengi sýna sig — á þeim staðnum, þar sem hann eyddi kröptum sínum og vann sitt mikla dagsverk, — nei, um það ætla jeg að einnig vitni ljóslega þau miklu umskipti, sem á fáum árum eru orðin á búnaðarhyggindum, atorkusemi, framförum og velmegun gjörvalls sveitarfjelagsins, og jafnvel fleiri nærliggjandi sveita. — Jeg vil enganvegin rýra heiður yðar, þjer merkismenn þessa fjelags! en jeg vil spyrja: er hjer ekki fallinn einn hinn mesti sveitarhöfðingi — einn hinn mesti velgjörðamaður fjelagsins? á ekki blómgun þessa fjelags — að minnsta kost meðfram — rót sína í þessu, nú ískalda hjarta? hefur ekki dæmi þessa manns — hafa ekki skinsamleg ráð

hans og fortölur áorkað hjer miklu? — mun ekki minning hans lengi verða hjer í heiðri og blessun hjá öllum þeim, sem kunna að meta mannkosti hans, og vilja dæma rjett verk hans? Jeg taldi lífi hans það til gildis, að hann hefði verið auðugur af vinum (eins og jeg, og víst margir fleiri áttu í honum hreinskilinn og trúfastan vin) og ætla jeg þetta rjett hermt, þó valt sje að dæma um, og ætla á vinfengið í heiminum, — og á heimili sínu hvíldi hann í vináttunnar og elskunnar faðmi, lukkulegur í hjónabandi meðan samvista varð auðið, og frammí dauðann lukkulegur faðir, í hópi sinna efnilegu og elskuríku barna. — Mikið hafði þannig, v. m! það lífið, sem nú er slokknað, til síns ágætis og það ágætasta vantaði víst ekki heldur, nefnilega: þá gleðiríku meðvitund, að hann hefði haft vilja og ástundun á að gjöra Guðs vilja, og vera það, sem hann átti að vera. En — mæða og erfiði var þó einnig líf hans: jeg vil nú ekki fá mjer til orða það sem svo algengt er í heiminum — að hans góði vilji stundum kunni að hafa verið misskilinn og rangfærður — að hann opt kunni að hafa mætt mótspyrnum og óþakklæti þar, sem hann átti skilið aðstoð og þakklæti — að hann ekki ætíð hafi komist hjá eitri illmálugrar tungu; jeg tala ekki heldur um þá mæðu og það erfiði, sem lífsins gæði optastnær verður að kaupa fyrir; — nei — fyrir

utan þetta reyndi hann mikla og þunga mæðu — sorg, mannraunir, þjáningar: — í mörg ár varð hann að sjá uppá þung veikindi föður síns; af af þeim 14 börnum, sem Guð blessaði með hans fyrra hjónaband, missti hann 6; og móður þeirra tók Drottinn einnig til sín, eptir útstaðin löng og ströng harmkvæli; — eptir að hafa lifað $1\frac{1}{2}$ ár sem einstæðingur með sínum barna hóp, giptist hann í annað sinn ungri og blómlegri konu; en æ! þessi lukka hans og gleði reyndist fallvölt! — ekki var nema liðugt árið líðið, áður hin unga og blómlega konan lá lík, eptir að hafa fætt honum son, hið níunda barnið, sem nú lifa eptir föður- og móðurlaus á jörðunni. Og um sama leyti var einnig stundin komin, að hann sjálfur skyldi ganga undir hinn þunga kross langvinnra þjáninga, sem hann nú tæplega 51 árs gamall, 14. dag þ. m. eptir nálægt $1\frac{1}{2}$ ár er hnígin undir. — Fyrir löngu vissi hann það sem ekki sýndist miklum vafa undirorpið, hvern enda sjúkdómur hans mundi hafa, og gekk með sannkristilegri auðmýkt, stilling og rósemi móti dauða sínum, og í Jesú trú gat hann tekið sjer Símonar orð í munn: „lát þú nú, Drottinn! þjón þinn í friði fara“! — já, allar sínar líðanir — alla sína sorg held jeg sje óhætt að fullyrða að hann hafi borið, sem einn af trúarinnar góðu hetjum, með kyrrlátri þolinmæði og sonarlegri undirgefni undir Guðs vilja:

mjer er enn minnisstætt sjerílagi eitt brjef, sem hann skrifaði mjer í veikindum fyrri konu sinnar — mjer er minnisstætt hvað það var hrærandi og hjartnæmt; það vitnaði ekki einungis um liprar og fjörugar gáfur og hjartfólgna elsku til sinnar líðandi konu; heldur var það einnig fullt auðmýktar og lifandi trúar, þakklætis og lofgjörðar til hans, sem hafði leitt hann og annast frá móðurlífi; — það var nokkurs konar æfi ágrip — samið í sonarlegum og auðmjúkum anda elskunnar og trúarinnar: hann minntist þar Guðs föðurlegu meðferðar á sjer og sjerílagi þess góða hlutskiptisins, sem sjer hefði hlotnast, og þess yndis sem Guð hefði gefið sjer í sínum elskulegu börnum; hann talaði með viðkvæmni um hversu líðanir sinnar ástfólgnu konu skæru hjarta sitt, og — andi og inntak brjefsins voru þessi trúarinnar orð: „fyrst jeg hefi þegið það góða, skyldi jeg þá ekki einnig með þolinmæði taka því stríða! — skyldi jeg þá ekki drekka þann kaleik, sem minn faðir hefur mjer gefið!“ Jeg hefi einnig lesið ræðu þá, sem hann hjelt yfir moldum mágkonu sinnar — sínum syrgjandi svila til huggunar; og jeg þori að spyrja hvern þann, sem hana heyrði, eða hefur lesið hana með eptirtekt, hvert hann álíti ekki að höfundurinn hafi borið í brjósti sjer viðkvæmt og guðhrætt — elskuríkt og trúarörugt

hjarta[1], — já, einnig, hvort ekki sje í þessari ræðu lipur talsgáfa og kristileg andagipt, sem óskandi væri að fyndist hjá sem flestum prestum; — já, það er ætlun mín, að þessi vor framliðni bróðir hafi verið sjerlega vel fallinn til prestsskapar, og hafði hann lengi fram eptir hug á að komast í þessa stöðu; en aptur var það náttúrlegt, að honum fyndist ísjárvert, að breyta þeirri stöðu, sem hann var í, og yfirgefa þann staðinn, sem svo lengi mun bera menjar hans, og þar sem Guð hafði blessað hann svo ríkuglega.

Sú ályktun, döpru vinir! sem jeg vil gjöra af þessari ófullkomnu lýsingu þessa vors sofnaða bróður, — hún liggur fólgin í þessum orðum ritningarinnar, er jeg hóf með fáyrði þessi: „dýrmætur er fyrir Drottni dauði hans heilögu“. Og — það sem er dýrmætt fyrir Drottni, ætti það að vekja eintóma harma í hjörtum hans barna? er það tilhlýðilegt, að þegar fögnuður er í himninum, þá sje grátur og harmur á jörðunni — þá syrgi kristnir menn eins og þeir, sem enga von hafa? — Nei, kristnir menn! þannig breyttu ekki vorir fyrstu bræður í trúnni; — nei, til að vitna fyrir heiminum um þá von, sem í þeim bjó, sungu þeir lofsöngva á þeim dögum, sem elskandi hjörtum eru svo þungt reiðarslag, á þeim

[1]) Sama hugarfari og þakklátum anda lýsa og tvö smákvæði, er jeg las eptir hann um sama leiti og ræðuna.

dögum, þegar ástvinir þeirra yfirgáfu þá. — Ó, látum ekki það ljósið sem í oss er — sem oss er sent frá himni Guðs — verða að myrkri — látum oss í svartnætti sorgarinnar ekki hafna trúarinnar blessaða ljósi!

Með þessum orðum sný jeg mjer þá sjerílagi til yðar, þjer hin föður- og móðurlausu börnin, og þjer hinir aðrir náungar og elskendur þessa vors í Drottni sofnaða bróður! — jeg veit hvaða harmur og tregi býr yður í brjósti, — jeg vissi það, þó tár yðar ekki segðu mjer það! — ó, jeg vildi af hjarta geta þerrað ykkar tár — ljett nokkru af hinni þungu byrði sorgarinnar af yðar mæddu hjörtum! — en — jeg finn það vel — við mig mætti segja: „hjálpa þjer sjálfum“! — Nei — að þerra elskunnar heitu tár — það get hvorki jeg, nje nokkur annar, sem hjer er sýnilega nálægur, — það getur að eins hin eilífa og ósýnilega miskunarhönd hans, sem kom að, þegar hinn ungi maður í Nain var borinn út, og sagði með almættiskrapti við hans syrgjandi móður: grát þú ekki! — En það sem jeg get vil jeg gjöra; — það sem vjer hans þjenarar og umboðsmenn getum gjört og eigum að gjöra, það er, að minna yður á — að brýna fyrir yður það evangelíum, sem hann færði heiminum — að hann sje uppan og lífið — að hann sje nálægur þar sem tveir eða þrír sjeu komnir saman í hans nafni, o. s.

frv. — ó, elskuðu vinir! víst er hann oss hjer nálægur, og fyrir trúna getum vjer heyrt hans huggunarorð: „grátið ekki!“ Já — og grátið ekki! segir hann yður og oss öllum í sínu heilaga orði — grátið ekki, „því þessi faðir yðar og vinur! — hann er ekki dauður, heldur sefur hann, nýtur hvíldar eptir dáðríka dagsvinnu — nýtur sæluríks sigurs, sigurs eptir útstaðið stríð — nýtur dýrðlegra verðlauna sinnar trúu ráðsmennsku yfir því stóra pundinu, sem honum var trúað fyrir! — grátið ekki, segir Jesús, því elskan deyr ekki — elskendurnir sjást aptur, og lifa saman eilíflega í Guðs söfnuði á elskunnar rjetta föðurlandi! — grátið ekki, segir Jesús, því Guð er faðir föðurlausra, og hann yfirgefur engan af þeim yfirgefnu! — já, grátið ekki, v. m.! segi jeg, hans óverðugur þjenari, — í hans nafni og umboði segi jeg: grátið ekki eins og þeir, sem enga von hafa! — Jeg veit það, að það er svölun elskandi hjarta, að útausa tárum, við umhugsun sinna horfnu vina; — ó! skyldi jeg ekki unna yður þessarar svölunar! — nú, grátið þá, v. m., en — grátið kristilega, — látið sorg yðar vera auðmjúka, stilta og kyrrláta, — látið tár yðar vera — ekki einungis sorgar- og saknaðartár heldur einkum og sjerílagi lofgjörðar- og þakklætistár! — þá heiðrið þjer verðuglega minning yðar sofnaða ástvinar. — þakkið Guði fyrir hann —

fyrir líf hans og dauða; — þakkið Guði, blessuð börn! fyrir þá elskuríku foreldrana, sem hann gaf yður! — þakkið Guði, að nú er allt þeirra stríð á enda, og dýrðlegur sigur unninn — engin pína snertir þau í Guðs himni! — þakkið Guði fyrir þá sæluríku von, sem þjer hafið, fyrir Jesúm Krist, að fá aptur að sameinast þeim, og lifa með þeim eilíflega í óslítanlegum kærleika í sælunnar himnesku heimkynnum! — Samleiðin er að vísu þrotin, og hvert elskandi hjarta skyldi ekki finna ti þess, að það er þungt, að sjá ástvinum sínum á bak; — en, e. b.! skilnaðurinn er þó að eins stundarskilnaður, og erum vjer ekki vorum himneska föður um það skyldugir, að láta oss lynda, þó vjer litla stund verðum að feta örðugan sorgarferil? — erum vjer ekki elskendum vorum um það skyldugir, að unna þeim þess að ná sælunnar höfn nokkru á undan oss? — já, m. e. v.! lærum að eignast sálir vorar í heilagri þolinmæði og undirgefni undir vilja vors himneska Föður! — þó þessi vilji sje oss stundum undarlegur og óskiljanlegur, þá vitum vjer, að hann er ei að síður speki og trúfesti; — göngum öruggir og vonglaðir í þessari trú — göngum með þeim, sem enn eru oss tengdir elskunnar böndum — göngum með þeim í flærðarlausum og hjartfólgnum kærleika á guðsóttans farsælu stigum; — þá munum vjer, þó smátt og smátt fækki vinirnir á jörð-

unni, finna hvíld og svölun í sjerhverri sorg — finna hvíld og svölun særðum hjörtum vorum við hið elskuríka hjarta vors bezta vinar — vors himneska Föður!

Já, himneski Faðir! helguð veri þjer öll vor gleði og öll vor sorg — helguð veri þjer öll tár og andvörp elskunnar og saknaðarins, sem hjer væta augu og mæða hjörtu þinna barna! — Vertu, eilífi Faðir! — vertu faðir og athvarf munaðarleysingjanna — þeirra föður- og móðurlausu barnanna! — gæð þinni himnesku huggun þá eptirskildu systurina, og alla náunga og elskendur þessa þíns í friði farna þjónustumanns! — og öllum þeim, sem um sárt eiga að binda — sem leynt eða ljóst fella elskunnar ag sorgarinnar heitu tár, — öllum þeim — öllum oss vertu nálægur með krapti þinnar huggunar — öllum oss vertu náðugur í Jesú nafni!

Svo veri þá þetta dauðans herfang — þetta frækorn, sem í jörðina skal leggjast — þetta útsáð fyrir eilífðina, — veri það af oss í kærleika kvatt og friðarins Guði falið, — veri það í friði Guðs geymt til hins mikla uppskerudagsins! — Og sá ódauðlegi andinn vors vinar, — njóti hann eilíflega óumræðilegs friðar og fagnaðar á uppskerunnar fullsæla landi hjá öllum undanförnum og eptirkomandi elskendum — hjá trúarinnar

höfundi og fullkomnara, Drottni vorum Jesú Kristi! amen.

---

# Ræða

haldin í kyrkjunni hjá líkkistu stúdents **Guttorms Vigfússonar**

af

**Hjálmari** presti **Guðmundssyni.**

---

það er bæði venjulegt og tilhlýðilegt að halda á lopti minningu merkismanna. En engin eptirmæli verða betur talandi, eða geta orðið langvinnari og haft drjúgari afleiðingar, enn þau sem hinn burtkallaði hefir sjálfur eptir sig látið

Hans aðburðir og framkvæmd bera honum ljósast vitni hver og hvílíkur hann var. Afleiðingarnar samsvara því einnig opt auðsjáanlega, en ætíð talsvert, jafnvel þó minna á beri í fyrstu.

Maðurinn er, eins og vjer vitum, svo langt hafinn af Guði yfir allar skepnur á jörðunni, sem Guðs andi og Guðs mynd ber af öllu jarðnesku, því mannsins andi er frá Guði og hann er skapaður og lagaður til Guðs myndar. því hafa líka ymsir mestu merkismenn gjört nafn sitt og minningu svo að kalla ódauðlegt, enda hefir það leg-

ið eptir slíka menn sem hafði stærstu og varanlegustu afleiðingar, sem urðu því meira verðar þess viturlegri, tilhlýðilegri og heillaríkari sem þær reyndust.

Margt er að vísu mikils heiðurs vert og heillaríkt í framferði og athöfnum mannanna. En næst rjettu hugarfari og ráðvöndu framferði, má þó víst teljast eitt hið fremsta, gott og tilhlýðilegt uppeldi barna og unglinga, og viturleg notkun alls þess, sem Guð hefur gefið mönnunum til gagns og velvegnunar.

Eg vil minnast hjer á góða og viturlega meðferð jarðarinnar, sem vitrir og miklir menn hafa lengi álitið einn vissasta velgengnis stofn landa og lýða. — Ritningin segir Guð hafi talað til hinna fyrstu manna: Gjörið yður jörðina undirgefna! og þá skulið þjer drottna svo að kalla yfir allri náttúrunni og hennar margbreyttu gæðum. þetta guðdómlega loforð staðfestir öll rjett athuguð reynzla. Að yrkja og rækta jörðina sem bezt og viturlegast, og fara eins vel með ágóða þann, sem hún gefur þá af sjer, er mikilvægt meðal til velförnunar fjölda manna og skepna. því fremur sem einstakir menn eða heilar þjóðir skara fram úr í þessu, því betur vegnar þeim. Vjer getum fullsannað, að vor burtkallaði heiðraði bróðir, alþingismaðurinn herra Guttormur Vigfússon — hvers jarðarför vjer heiðrum nú í dag

með saknaðarfullri nærveru vorri, hafi eptir sig látið þær athafnir, sem að vísu munu halda nafni hans og minningu í langvinnum og verðskulduðum heiðri meðal vor. — Óneitanlega var hann í þessu hjeraði svo að kalla fyrsti og helzti frumkvöðull skynsamlegrar jarðar meðferðar og umhirðingar, sem Guð blessaði með ríkuglegum ávexti, svo hann uppbar árlega langtum meira, enn hann kostaði til og syndi þannig ljóslega, hversu mikils er verð og hvílík blessun fylgir rjettilegri meðferð jarðarinnar. Bújörðin hans, sem hann bætti svo mjög og prýddi, sannar harla vel hið fornkveðna: húsbóndinn gjörir garðinn frægan. Hún sýnir það nú og sannar að sá, sem trúað var fyrir henni, kunni einna bezt þeirra, sem vjer þekkjum, að fara með jörðina.

En hann bætti ekki einungis svo mjög sinn hag, heldur var hann einnig fremsti hvatamaður til að vekja og örfa meðbræður sína til líkra framkvæmda, svo margir hafa aðhyllst hans ráð og að hans dæmi bætt hag sinn og eru ordnir, líkt og hann, fögur fyrirmynd meðbræðra sinna og niðja í þessum lofsverðu framferðum.

Þessi ávinningur af skynsamlegri meðferð jarðarinnar er ekki einúngis rjett fenginn, heldur heidursverður og nytsamur. Hjer er án efa ekki tekið neitt af annara eign, heldur er öðrum gefin ljósasta ávísun hvernig þeir eigi að fara með það,

sem þeim er af Guði trúað fyrir. Hjer er undir eins börnum og hjúum sýndur og greiddur beinasti vegur, til að geta lifað farsælu og nytsömu lífi.

Mikil björg og blessun og mikill rjettur fögnuður fylgir slíkum viðburðum. þannig þakka mennirnir tilhlýðilegast hinum mikla og gæzkuríka föður og gjafara allra góðra hluta, með því að votta og sýna með orðum sínum og athöfnum, hvílíkt vit og mátt hann hefur gefið þeim og hversu hann blessar rjetta viðleitni þeirra. Mikinn og óvisnanlegan heiður á því hverr sá skilinn, sem verður fremsti forgöngumaður að svo lofsverðri og nytsamlegri framkvæmd,

Vjer viðurkennum sameiginlega með þakklæti, að þessi vor heiðraði og burt kallaði bróðir hefur áunnið sjer sannan og langvinnan heiður og opnað sínum samtíða og eptirlifandi meðbræðrum óbrygðulan aðgang til rjettnefndra heilla, gagns og frama!

þannig hefur hann trúlega unnið það verkið, sem Guð kallaði og styrkti hann til að vinna, og meðtekur því án efa verðkaup hinna trúu þjóna.

Einlæglega fögnum vjer í dag frelsi hans frá þessum dauðlega líkama, í hverjum hann leið opt talsvert og þungt mótlæti, og nú síðast langvinnan en þó optar bærilegan sjúkdóm, þar til Guð sendi sinn handgenginn engil, dauðann, til að

taka hann frá allri lífsins mæðu og flytja hann til sinnar eylífu dýrðar. En mest fögnum vjer af þeim heiðri og farsæld, sem hinar miklu og góðu framkvæmdir hans efalaust hafa áunnið honum.

það er skyldugt að vjer heiðrum hans minningu og það gjörum vjer því verðuglegar, þess fremur sem vjer látum dæmi hans hvetja oss til að uppfylla skyldur vorar, eins og hann gjörði, og leggja allt kapp á að taka framförum og bæta vorn eiginn og annara hag með viturlegum og rjettum atburðum.

Meðal velmentaðra þjóða hafa menn stundum heiðrað minningu beztu og merkustu manna með því, að stofna ýmsar nytsamar stiptanir, sem annaðhvort væru kendar við þá, eða helgaðar minningu þeirra. þessi aðferð er nytsöm og lofsverð, og hefir einatt haft farsælustu afleiðingar. Á henni er oss líka nú í dag — heiðruðu meðbræður! — gefinn kostur. Með engu móti getum vjer betur og verðuglegar heiðrað minningu þessa mikilsvirta burtkallaða bróður vors, enn með því að sameina oss til að stofna vor á meðal búnaðar kennslu skóla í hans minningu, þann skóla — þó hann lítill væri í fyrstu — þar sem efnilegir ungir menn gætu lært það, sem þeim væri nauðsýnlegast til að geta staðið vel og sómasamlega í sinni stjett. Vjer verðum að játa að vjer erum harla fákunnandi til að nota gjafir

skaparans, gæði náttúrunnar, eins vel og vera mætti, og þakklætis skyldan við gjafarann heimtar af oss. — Vinnureitur sá, sem þessum burtkallaða bróður vorum var ljenaður til meðferðar, ber þess ljósan vottinn, hversu miklum framförum og bótum vinnureitur hvers búanda getur tekið, þegar skynsamlega og kunnáttulega er farið með. Og þessi reiturinn getur þó án efa tekið enn stórmiklum framförum. Hvað mun þá um hina aðra, sem lítið eða ekkert er við gjört? Vjer erum þó allir sannfærðir um, að Guð hefur skapað oss til framfara og fullkomnunar einnig í líkamlegum efnum; að honum þóknast ekki að vjer höldum að oss höndum, eða stöndum í stað, án allra framfara; að honum þóknast ekki, að vjer látum gjafir hans ónotaðar og lifum í eymd og volæði, þegar þarfir lífsins kalla að oss, og nóg gæði eru fyrir höndum, ef vjer kynnum að nota. En þó menn taki eitthvað þarflegt og gott fyrir sig án rjettrar kunnáttu og þekkingar, verður það sjaldan að gagni og mistekst allavega.

Sje þetta og þvílíkt satt, er oss mesta þörf á nytsamri og rjettri mentun í stöðu vorri, til þess að geta staðið í henni með heiðri oss og öðrum til heilla.

Er oss ofvaxið í þessum lands parti að stofna hjá oss þá stiptun, sem gæfi oss hentugan leiðarvísir til að efla framför vora, gagn og sóma?

Er það ofætlun fyrir oss að koma þessu svo haganlega fyrir, að vjer stæðum jafnrjettir eptir, en uppskærum mikil not fyrirtækisins?

Jeg tala þetta til yðar allra, heiðruðu meðbræður! og það er hugboð mitt, af þeirri þekkingu, sem vjer höfðum af þessum framliðna bróður vorum, ef hann gæti nú ávarpað oss, að hann mundi tala til vor líkt þessu: Þjer sjáið, ástkæru bræður! hvílíka blessun Guð veitti mínum ófullkomnu viðburðum að bæta minn og annara hag. Margt hefir mjer í fyrstu mistekizt og margt er enn ekki komið í lag, en margt hefir mjer tekizt að bæta, og margt stendur til bóta. — Þjer heiðrið nú sjálfviljuglega minningu mína, þakkið Guði fyrir þann styrk og framkvæmd, er hann veitti mjer, og fylgið með söknuði jarðneskum leifum mínum til hvíldar sinnar, en geymið minningu mína hjá yður. Látið hana þá minna yður á að leggja alla alúð á mentun og framför yðar, sem þjer teljið nú að jeg hafi reynt að leiðbeina yður til! Kostið til þessarar mentunar og framfara eptir efnum yðar! Heiðrið þannig minningu mína, undireins og þjer leggið vissasta grundvöll til yðar og eptirkomendanna velförnunar!

Guðs aðstoð og blessun, ásamt allri rjettnefndri heill, mun eflaust fylgja þvílíkum atburðum yðar, og þessa óska jeg yður um leið og jeg kveð yður innilegast og þakklátlegast.

Athugið, heiðruðu bræður! þessi ummæli og finnist yður þau þess verð, þá takið þau til alvarlegrar umhuxunar, svo þau færi smámsaman að sýna verkanir sínar í yðar eigin atburðum og framkvæmd!

Allir erum vjer hjer á einum og sama vegi og förum hjeðan, hvenær sem Guð kallar oss. Allir höfum vjer hjer vort ætlunarverk. Oss ríður á að þekkja það og vinna það dyggilega. Vor verk fylgja oss ekki einasta í komandi lífi, heldur hafa þau líka hjer töluverðar menjar

Vinnum þá trúlega vort ætlunarverk, meðan oss endist líf og kraptar! þannig hlýðum vjer föður vorum á himnum, og getum orðið vissir um hans velþóknun og blessun. Vjer óskum allir að eptir oss liggi margt og mikið gott, og að vor góðverk gleðji oss í eilífðinni; en þetta lætur Guð efalaust hlotnast þeim öllum, sem rjettilega leita þess. Farsælt verður þeirra líf, farsæll þeirra viðskilnaður, sannblessuð þeirra eilífð.

Drottinn, kenn þú oss það, sem þjer er þóknanlegt! þú ert vor Guð og faðir. Lát þú þinn góða heilaga anda leiða oss rjettan veg til æfinlegrar farsældar, svo öll sú heilög blessun, sem þú hefir framboðið oss fyrir þinn elskulegan Son Jesúm Krist, vorn Drottinn og frelsara, verði óbrygðult hlutskipti vort bæði hjer og síðar! amen.

---

# Ræða

haldin í kirkjunni yfir líkkistu stúdents og alþingismanns **Guttorms Vigfússonar**
af
**Einari** presti **Hjörleifssyni** á Vallanesi.

---

þeir, sem ganga fram fyrir Guðs augliti, innganga til hans friðar, segir ritningin. Hverjir eru það, mínir elskanlegir! sem ganga fram fyrir Guðs augliti, og hverr er sá friður, sem þeir öðlast? þeir ganga fram fyrir Guðs augliti, sem hafa ætíð sjer hugfasta Guðs aðstoðar nálægð og vanda allt sitt hugarfar, orð og athafnir, eins og stæðu þeir frammi fyrir alltsjáanda Guði, rækja með trú og dyggð þær skyldur, sem Guð og menn hafa þeim á hendur falið, stunda köllun sína með allri samvizkusemi, ástunda jafnan að láta eitthvað gott af sjer leiða, láta sjer annt um að vera Guðs verkfæri á jörðunni, til þess með orði og verki og eptirdæmi að útbreiða hans ríki og efla farsæld bræðra sinna andlega og líkamlega. Að ganga þannig frammi fyrir Guðs augliti, það er sá heiður, sú tign, sem manninum er ætlað að ná hjer á jörðu. Og uppskera, verðlaun slíkrar

hegðunar er friðurinn: friður hjartans, friður við Guð og menn, guðlegur friður, friður, sem æðri er öllum skilningi, friður, sem heimurinn fær ekki gefið og ekki frá manni tekið. — Til að ávinna sjer slíkan heiður, að ná slíkri sælu, hefir Guð gefið oss bendingar, lífsreglur og meðöl í sínu heilaga orði, í meðvitund vorri og tilfinningum hjartna vorra. Ef vjer gefum gaum að og fylgjum trúlega þessum lífsreglum og verjum vel þessum meðölum, getum vjer áunnið oss þenna heiður, náð þessu sæluhnossi. En aldrei geta þessar bendingar, lífsreglur og meðöl gjört eins mikil áhrif á oss, eins og þegar vjer höfum fyrir oss lifandi eptirdæmi. Eitt þvílíkt dæmi höfum vjer fyrir oss, m e.! sem höfum safnast saman að þessari líkkistu, sem geymir holdlegar leyfar stúdents og alþingismanns Guttorms Vigfússonar.

þessi merkismaður, þessi bróðir vor og ástvinur, gekk fram fyri Guðs augliti. það vitnar sá vinnureitur, sem honum var úthlutaður, það fjelag manna, sem hann lifði í. Hann vann ekki einungis að hverju, sem honum var trúað fyrir, hvort það var meira eða minna, með stakri trúmennsku, dugnaði og ráðdeild, heldur tók sig fram um það, vann óþreyttur að því, sem miðað gat til almennings heilla, án þess stjettarskyldur hans beinlínis krefðu þess. Honum var ekki nóg, að honum liði sjálfum vel; hann vildi

allir nyti sömu gæða, hverr eptir sínum kringumstæðum. Til að útbreiða og efla á sjerhvern hátt almenna vellíðan, varði hann mestu kappsmunum, — sparaði ekkert ómak. Hann neytti þar til trúlega hinna drjúgu gáfna og þess mikla sálarþreks, sem Guð hafði gefið honum, — þeirrar töluverðu mentunar, sem honum hafði veitzt. Og þó einstakir menn yrði til af fákænzku eða illvilja að leggja rangan dóm á aðgjörðir hans, ljet hann það ekki aptra sjer frá að halda því áfram, sem hann var sannfærður um að til góðs mátti verða. En það var ekki einungis líkamleg velferð bræðra hans, sem hann gjörði sjer far um að efla, heldur einnig andleg. Sjálfur var hann vel upplýstur í guðsorði og bar jafnan lotningu fyrir því, lotningu fyrir guðlegum siðum og setningum og glæddi hana hjá öðrum, hvar sem hann til náði. Sjálfur var hann gagntekinn af lifandi trú og hreinskilnum Guðs ótta, og glæddi þær sömu tilfinningar rækilega bæði hjá heimilisfólki sínu og öðrum út í frá; og jeg vona að ekki all fáir af þeim, sem hann umgekkst, beri þess ljósan vottinn. — Hann rækti því köllun sína trúlega, ráðvandlega og guðlega.

Hann gekk fram fyrir augliti Guðs. Það vottar breytni hans og skipti við alla þá, sem eitthvað höfðu við hann að sælda. Hann var einlægur, trúr og staðfastur vinur, ráðhollur, hjálp-

samur og höfðinglyndur við þá, sem leituðu hjálpar hans. Hans blíða og viðkvæma lund gat aldrei horft aðgjörðalaus á bágindi annara, og varð einatt fyrri til að afstýra þeim og hvetja aðra til þess, enn hjálpar hans væri beinlínis leitað. Hann leit aldrei beinlínis á sinn eigin hag, heldur undir eins á annara. Fals og tvídrægni var honum viðbjóður. Hann talaði hreinan og beinan sannleika skorinort og hispurslaust, hverr sem í hlut átti. Hann spornaði við ranglætinu, og verndaði sakleysið, þar sem hann gat því viðkomið, og ljet aldrei manna ótta nje mannhylli aptra sjer þar sem skyldan og rjettvísin, eptir hans sannfæringu, var á aðra hlið.

Hann gekk fram fyrir Guðs augliti. Það vitnaði háttsemi hans og breytni við ektakvinnur hans, börn og þjónustufólk. Hann var blíður, ástúðlegur og viðkvæmur ektamaki. Hann var góður og ástríkur faðir allra barna sinna, og bar mikla umhyggju fyrir velferð þeirra andlegri og líkamlegri. Hann var röggsamur og stjórnsamur, blíðlyndur og velviljaður húsfaðir og ljet sjer annt um að laga og fræða þjónustufólk sitt; munu þeir margir, sem vildu nota sjer tilsögn hans, bera þess menjar, enda naut hann að maklegleikum ástsældar og virðingar allra þeirra, sem þjónuðu honum og vildu taka sjer fram.

Af því hann gekk nú þannig fram fyrir

Guðs augliti, — af því hann var þannig grandvar, skyldurækinn og ráðvandur, eins og sjálfur Guð sæi hjarta hans og hegðan — þá ávann hann sjer líka friðinn. Hann naut friðar hjartans. Hans eigin meðvitund sagði honum, að hann hefði leitazt við að uppfylla trúlega allar þær skyldur, sem honum voru á herðar lagðar. Mennirnir gátu ekki krafizt meira eða vænt af honum; og til Guðs gat hann haft þá auðmjúku von að geta notið þeirrar náðar og miskunar, sem að hylur bresti vora og breiskleika, þegar vjer leitum hennar í trúnni og leitustum við að verja vel þeim kröptum, sem Guð hefir gefið oss til að verða betri og fullkomnari. Hamingjusamlega keppti hann að þessu takmarki. Þess vegna gat hann án ásökunar litið til ens umliðna, rólegur til ens nærveranda og kvíðalaust til ens ókomna. Með rósemi og guðrækni hjelt hann sjer fast við fyrirheit Guðs orða; hann hafði reynt að þau eru óbrygðul, enda voru þau ljós hans og leiðbeining á allri vegferðinni. Hann setti jafnan örugga von sína til hans, sem hafði verið athvarf hans frá barnæsku og ekki yfirgefið hann á efri árunum, sem leiddi hann eptir sínu ráði og meðtók hann loks til vegsemdar.

Ávallt, — hvað sem honum bar að höndum, ástvina missir eða sjúkdómsþjáningar, er hann varð marg opt að þola og nú síðast í enni lang-

vinnu og erviðu helsótt — ávallt viðurkendi hann gæzku Drottins og möglaði aldrei nje kvartaði, heldur bar kross sinn með stakasta þolgæði og trúartrausti fram í andlátið. — Hann naut friðar á sínu heimili í ástúðlegri sambúð við ektamaka, börn sín og hjú. það var band elsku og virðingar, sem þar hjelt öllu saman. það var andi kærleikans, sem glæddist þar í hjörtum allra, talaði á allra vörum, stýrði allri háttsemi og hegðan. Guðræknin, siðsemin og ánægjan fylgdi heimilinu, helgaði vinnuna og laðaði að sjer blessan Drottins. Skemtilegar og guðrækilegar viðræður lífguðu og bættu heimilisbraginn. Viðkvæm ást milli foreldra og barna gjörði ávallt lífið inndælt og sykraði þeim öllum hvert mótlæti.

Í ástríkri umgengni með ektamökum og börnum leitaði hann sjer mesta yndis, skemtunar og hugsvölunar, þegar daga sorgarinnar bar að. því ekki sneiddu þeir hjá húsi hans, heldur enn annara. En það voru ekki sorgir af áhyggjum þessa lífs næringar, eða af hverfulleik fallvaltra gæða. þó Guð blessaði vel efni hans, — blessaði dugnað hans og ráðdeild, þá festi hann aldrei hjartað við auðinn, nje ljet hugann einungis hníga að honum. Nei! það voru sorgir þær, sem eru sameiginlegt hlutskipti allra manna, þær sorgir, sem særa að vísu hvert viðkvæmt hjarta, en hefja þó sálu sjerhvers sannkristins manns meir og meir

yfir hið jarðneska. Nærri mátti honum ganga missir efnilegustu dóttur fulltíða, og þar á eptir tveggja beztu og ástúðlegustu ektakvenna, hvorrar eptir aðra. Seinna viðkvæma sárið bar hann til dauðans. Því undir eins og hann hafði fengið það, missti hann algjörlega heilsuna og lá rúmfastur eptir það, optast undirlagður beizkum sjúkdóms þjáningum, þar til miskunsömum Guði þóknaðist fyrir rúmri viku, að leysa hann mildilega frá þessa heims mæðu.

En hann syrgði ekki eins og þeir, sem enga von hafa, heldur auðmýkti hann sig undir Guðs voldugu hönd, viðurkenndi með þakklæti þau gæði, sem Guð hafði lánað honum um stundarsakir, og huggaði sig við þá von að sjá aptur og samfagna ástvinunum í æðra og betra lífi. Meðan hann lá sína þungu banalegu kepptust hans ástríku börn, — hvert eptir sínum mætti, — og hin góða tengdadóttir hans, að gera honum þjáningarnar sem bærilegastar og ljetta undir krossinn með honum. Hann elskaði þau og þau hann heitt og innilega til enda, þá er hann kvaddi þau síðasta sinni, fól þau Guðs gæzkuríkri handleiðslu, lokaði aptur hálfbrostnum augum sínum og fól sinn anda í Föðursins hendur. Nú fylgja þau honum öll til grafarinnar, til að sýna honum síðasta vott þakklætis, virðingar og ástar hjer í lífi.

Þessarar sælu friðarins hefir vor framliðni

ástvinur notið í lífinu; og nú nýtur hann friðar á landi lifendra, þar sem engin sorg, enginn dauði er framar til, þar sem Guð hefir tilbúið þeim, er hann elska, þá sælu, sem ekki hefir auga sjeð, ekki eyra heyrt og engum hefir í hug eða hjarta komið. Hans þjáði líkami fær nú einnig að hvíla rótt í móðurskauti jarðarinnar, laus við alla þjáningu. Skyldum vjer þá ekki, m. e.! samfagna af hjarta þessum vorum ástvini og bróður, sem gekk hjer fram fyrir Guðs augliti og er nú inngenginn til friðar? þökkum Guði af hjarta, sem nú hefir leyst þenna sinn dygga þjón frá öllu andstreymi lífsins, látið hann fara hjeðan í friði og tekið hann til sín í friðarins sælu heimkynni! — þó hinn rjettláti deyi of snemma, þá er hann þó í hvíld, og hans minning varir í blessun á jörðunni. Vor framliðni ástvinur barðist góðri baráttu og hefir endað skeiðið, hann geymdi trúna og góða samvizku til æfiloka; nú er honum veitt kórónа sigursins.

Geymum þá, elskuðu náungar og vinir! minningu þessa vors elskaða bróður meðal vor í þakklátri og virðingarfullri endurminningu, og látum dæmi hans hvetja oss til að stunda þann veginn, sem leiðir til óendanlegrar farsældar og friðar í sælunnar eilífu heimkynnum, veg Guðs ótta, ráðvendni, trúmennsku og samvizkusemi í uppfyllingu vorra skyldna! Látum oss -- oss sjálf-

um til huggunar og leiðbeiningar á vorri óförnu lífsleið, — taka með oss, frá gröf þessa vors sæla ástvinar, minningu þessara orða heilagrar ritningar, sem koma svo vel heim við líf hans og dauða: þeir, sem ganga fram fyrir Guðs augliti, innganga til friðar.

Vertu, góði himneski Faðir! vor huggun, vort athvarf, vor styrkleiki í lífi og dauða! amen.

---



Hneit oss hjör
hjarta ið næsta
dýrra dómskapa
Drottins himna,

er lífkaldur
lífs og frægðar
eyðir lagði
lík í jörðu

**Guttorm Vigfússon**

stúdent og alþingismann Austfirðinga.
Hann var fæddur 17. nóvembermán. 1804.
Giptist fyrra sinni 1826
**Halldóru Jónsdóttur Vefara**
eignaðist með henni 14 börn, og syrgja nú 8
þeirra ágætan föður.
Missti hana 8. nóvembermán. 1852.
Kvongaðist annað sinn 30. júnímán. 1854,
og gekk að eiga **Kristínu Jónsdóttur**
(prests á Hofi í Álptafirði).
Átti með henni einn son, er lifir föður sinn.
Missti hana 22. júlímán. 1855,
en andaðist 12. septembermán. 1856.

---

Feldi' ofsnemma
frægur dauði
háfan meið
heiður sveitar

og byrgði mold
unz blómgast aptur
ítur laukur
á Ódáins landi

Tjáir ei deila
um dáinn mæring
viður Lávarð
lífs og dauða,

velur vizka,
veitir eilíf
ást elskendum
óskafundi.

---

Oss hvarf blíður barna faðir,
búa prýði', er gladdi lýði;
ver ágætur, vinur bezti,
vanda málum deildi án táli.
Logaði ást í beztu brjósti
(birtu verkin fögur merki)
Guðs og manna og gætti' að sönnu.
Góðum tregi deyr því eigi.

**S. G.**

